# [L]ÍF OG DAUÐI

ÞRJÚ ERINDI

EFTIR

EINAR HJÖRLEIFSSON KVARAN



REYKJAVÍK
ÚTGEFANDI: ÞORSTEINN GÍSLASON
MCMXVII

# LÍF OG DAUÐI

ÞRJÚ ERINDI

EFTIR

EINAR HJÖRLEIFSSON KVARAN





REYKJAVÍK
ÚTGEFANDI: ÞORSTEINN GÍSLASON
MCMXVII

# MÓTÞRÓINN GEGN RANNSÓKN DULARFULLRA FYRIRBRIGÐA

ERINDI FLUTT Á AKUREYRI 13. ÁG. 1916 OG VÍÐAR

**Mótþróinn að réna.**

Þið vitið öll, að mótþrói hefir verið gegn rannsókn dularfullra fyrirbrigða. Eg hygg, að sá mótþrói sé að réna, hafi fengið dauðameinið, leggist bráðum á banasængina.



Þeir eru nú orðnir svo margir af merkismönnum þjóðanna, helztu vísindamönnunum, helztu skáldunum, helztu djúphyggjumönnunum, helztu prestunum, helztu stjórnmálamönnunum, helztu kaupsýslumönnunum í ýmsum löndum, sem telja þá rannsókn merkasta málið, er mannsandinn fæst við, að það er óhugsandi annað en að það lið sé nógu öflugt til þess að fleyta málinu áfram til sigurs. En eg vona, að enginn misskilji mig svo, að hann geri sér í hugarlund, að eg vilji halda því fram, að mótþróinn sé ekki lengur tilfinnanlegur. Þá væri eg að gera mig hlægilegan. Þið vitið öll um mótþróann. Og ef til vill bera sum ykkar hann í brjóstinu í ríkum mæli.

**Hvers vegna mótþrói?**

Hvernig stendur á þessum mótþróa? Hvernig getur því vikið við, að mannkynið tekur ekki með glampandi fögnuði vitneskjunni um það, að mannsálin sé margfalt máttugri, æðri, dýrlegri vera en nokkur hafði hugsað sér áður? Vitneskjunni um það, að mennirnir eigi að lifa og þroskast eftir dauðann? Vitneskjunni um það, að vakað sé

yfir okkur úr öðrum heimi af ástvinum okkar og af æðri verum? Það er þetta, sem rannsókn dularfullra fyrirbrigða hefir verið að leiða í ljós. Er þetta nokkuð ljótt? Er þetta nokkuð ógeðfelt mannsandanum? Nei. En mönnum veitir svo örðugt að átta sig á því, að þetta sé að koma upp úr kafinu.

**Efnishyggju-öld.**

Insta og dýpsta aðalástæðan er sjálfsagt sú, að það hefir fallið í okkar hlutskifti að lifa á efnishyggju-öld — öld þeirrar lífsskoðunar, að tilveran sé ekki að neinu leyti andlegs eðlis, að mannsálin sé að eins afleiðing af efnasamböndum í líkamanum, og að ekkert sé til utan við efnisheiminn eða við hliðina á honum. Þessi lífsskoðun hefir náð tangarhaldi á vísindamönnunum á síðustu öld, og frá þeim hefir hún færst út til okkar allra. Hún hefir náð tangarhaldi á okkur öllum, hvort sem við vitum það eða ekki, hvort sem við viljum við það kannast eða ekki. Sumpart hefir hún smogið inn í sál okkar alveg ómenguð. Sumpart hefir hún gert annan heim svo óverulegan í hugum okkar, að við höfum alveg hætt að hugsa okkur, að við gætum orðið annars heims varir en hins jarðneska heims. Áhuginn á öðrum heimi og eilífðarmálunum hefir orðið rýr og þokukendur í þessu andlega lofti hjá afarmörgum mönnum.

**Spurningar Sálarrannsóknafélagsins.**

Það voru eftirtektarverð svör, sem brezka Sálarrannsóknafélagið fékk skömmu eftir síðustu aldamót. Það hafði sent út um heiminn spurningar, til þess að reyna að fá einhverja hugmynd um, hvað þessi áhugi sé mikill með mannkyninu. Af 3218, sem svöruðu, voru það 1271, sem

annaðhvort neituðu því, að þeir vildu fá nokkura vísindalega vitneskju um annað líf, eða sögðu, að sér stæði alveg á sama, hvort nokkurt annað líf væri til eða ekki. Og af þessum hóp manna, 3218, voru það að eins 681, eða vel 21%, sem svöruðu svo, að af því yrði ráðið, að þeir óskuðu þess verulega að fá vísindalega vissu um það, að mennirnir eigi að lifa eftir dauðann. Einn af forsetum félagsins, dr. F. C. S. Schiller, prófessor í Cambridge, hefir gert þessi svör að umræðuefni í einkar-vandaðri ritgjörð. Hann kemst að þeirri niðurstöðu, ekki eingöngu út af þessum svörum, heldur jafnframt út af annari þekking sinni á mönnunum, að á hverjum einstökum tíma sé það vafalaust minni hluti mannanna, og að líkindum að eins lítill minni hluti, sem láti sig eilífðarmálin nokkuru skifta. Eg er á alveg sama máli. Eg held, að þið verðið öll á sama máli, ef þið hugsið ykkur vel um, og dragið hreinskilnislegar ályktanir af reynslu ykkar á mönnunum. Svona er efnishyggjan búin að fara með okkur: Fæstir okkar hugsa neitt um það, nema á alveg sérstökum reynslustundum, hvort við erum í raun og veru dægurflugur, eða hvort við kunnum að vera börn guðs og höfum fengið að vöggugjöf á morgni tilverunnar það eðli, að geta **aldrei** dáið, **fá** að lifa og **verða** að lifa um aldir alda.

**Einu trúarbrögðin.**

Mér liggur við að segja, að í raun og veru hafi efnishyggjan verið um tíma einu trúarbrögð Vesturlandamanna, okkar Íslendinga eins og annara. Til þess að gera okkur grein þessa, þurfum við ekki annað en að athuga það, að ef við heyrum um einhverjar nýstárlegar uppgötvanir, sem við jarðnesk-

an heim eru bundnar, þá trúum við þeim umsvifalaust, ef einhverjir þeir menn taka ábyrgð á þeim, sem við teljum áreiðanlega; við trúum þeim uppgötvunum, þó að þær séu allsendis ólíkar allri reynslu sjálfra okkar, og þó að við getum ekki minstu vitund í þeim skilið. Hugurinn veitir enga fyrirstöðu, þegar nýjungarnar eru á þessu sviði. En hve nær sem við fáum fréttir af nýjungum, sem benda út yfir efnisheiminn, þá er okkar fyrsta hugsun sú, að þetta hljóti að vera einhver blekking. Og margir okkar þverskallast við að veita þeim nýjungum viðtöku, þó að þær séu staðfestar af alveg sömu vísindamönnunum, sem siðaður heimur tekur skilyrðislaust trúanlega, þegar þeir segja frá uppgötvunum sínum á sviði efnisheimsins. Þetta kemur af engu öðru en því, að efnishyggjan er orðin okkar trúarbrögð — það er efnið eitt, sem við erum alveg sannfærðir um, — þó að við ímyndum okkur alt annað, og þó að við játum alt annað, og þó að sumir okkar prédiki alt annað.

**Kensla reynsluvísindanna.**

Ekki megið þið samt skilja mig svo, sem eg sé eingöngu með úlfúð í garð efnishyggjuvísindanna í sambandi við þetta mál. Þau vísindi hafa kent mönnunum að athuga nákvæmlega. Og þau hafa líka kent þeim að draga gætilegar ályktanir. Hvorttveggja var óhjákvæmilegt, til þess að rannsókn dularfullra fyrirbrigða gæti farið fram af nokkuru viti. Mér liggur næst að halda, að það sé einhver vitur forsjón, sem hefir ráðið því, að rannsókn dularfullra fyrirbrigða komst ekki verulega á dagskrá hjá mannkyninu, fyr en reynsluvísindin höfðu kent mönnum að láta alt fara tryggilega fram og forðað þeim frá hinum og

öðrum ógöngum, sem þessi rannsókn hefði sennilega leitt þá út í, meðan þroskinn var minni.

**Ýmsar myndir mótþróans.**

Þessi er þá aðalundirrót mótþróans, eftir því sem eg lít á. En hann kemur fram í ýmsum myndum. Með öðrum orðum, hann ber fyrir sig hinar og aðrar ástæður, heldur fram hinum og öðrum mótbárum. Það eru þessar mótbárur, sem mig langar til að gera að umræðuefni, — auðvitað ekki allar, en þær, sem eg hefi mest orðið var við.

**Rannsóknin vitleysa.**

Eg kem þá að fyrstu mótbárunni. En þar verð eg að fara fljótt yfir sögur. Hún er sú, að rannsókn dularfullra fyrirbrigða sé ekkert annað en vitleysa. Þessi svo nefndu dularfullu fyrirbrigði séu engin til. „Trancinn" sé venjulega svik, einstöku sinnum einhver sjúkdómur; sama sé að segja um ósjálfráða skrift. Engin skeyti hafi komið, sem ástæða sé til fyrir heilvita menn að ætla, að geti verið frá öðrum heimi. Aldrei hafi nokkur maður séð svip; slíkt sé ekki annað en kerlingabækur eða vísvitandi lygar, rangar athuganir eða skynvillur. Alveg eins sé um raddir, sem menn þykist hafa heyrt, og geti ekki skýrt annan veg, en að þær séu komnar frá ósýnilegum verum; þær séu ekki annað en búktal, eða einhver önnur blekking. Svo nefndar manngerfingar hafi aldrei komið fyrir, séu ekki annað en miðlarnir sjálfir, í ýmis konar gerfi, eða stoppaðar leikbrúður. Eg þarf ekki að hafa þessa upptalningu lengri, þó að miklu mætti við hana bæta. Þið þekkið öll þessar mótbárur, þessa heildar-afneitun allra dularfullra fyrirbrigða.

Þessum mótbárum get eg ekki svarað í þetta sinn.

Við þá menn, sem halda þeim fram, get eg ekki annað sagt en þetta: Kynnið ykkur það mikla rannsóknarstarf, sem fram hefir farið á nokkurum síðustu áratugunum. Aflið ykkur vitneskju um það, á hve feykilega römmum rökum margir af mestu vitmönnum þjóðanna reisa sannfæring sína, ekki að eins um það, að fyrirbrigðin gerist, heldur líka um hitt, að mörg þeirra stafi frá öðrum heimi. Og reynið þið sjálfir fyrir ykkur, ef þið eigið þess nokkurn kost. Geymið þið að minsta kosti alla dóma um það, þangað til þið hafið fengið einhverja verulega fræðslu um það, annaðhvort af bókum eða af eigin reynd, og helzt af hvorutveggja. Þá fræðslu geta menn ekki fengið af einum eða tveimur fyrirlestrum. Hún verður, meira að segja, að grundvallast á fyrirbrigðunum í heild sinni, ef hún á að vera verulega veigamikil. Sannleikurinn er sá, að fræðin um dularfull fyrirbrigði, er að verða að heilli vísindagrein, og hún þurkast ekki út úr tilverunni með eintómri vanþekking.

**Trúarlegar ástæður.**

Mér dettur í hug samtal, sem eg átti við prest hér á landi fyrir nokkurum árum. — „Óskröp er eg mikið á móti þessum tilraunum ykkar þarna í Reykjavík við dularfull fyrirbrigði,“ sagði presturinn. — „Jæja, eruð þér það?“ sagði eg. „Þér hafið náttúrlega lesið mikið um málið?“ — „Ónei,“ sagði presturinn. — „Hvaða bækur hafið þér lesið um það?“ spurði eg. — „Eg hefi ekki lesið neina bók um það,“ sagði presturinn. — „Þér hafið þá líklegast fengið einhverja reynslu sjálfur af málinu?“ sagði eg. — Nei, þá reynslu vildi presturinn alls ekki fá, enda hafði ekki fengið hana. Eg lét á mér skilja, að mér fyndist það

nokkuð mikil fljótfærni að vera „ósköp mikið á móti" máli, sem maður hefði ekkert lesið um og ekki haft neina reynslu af sjálfur. Það kom þá upp úr kafinu, að presturinn var á móti málinu af trúarlegum ástæðum. Og þessar trúarlegu ástæður voru þær, að rannsókn dularfullra fyrirbrigða mundi vera bönnuð í Móselögum.

**Móselög.**

Ef eg á að vera alveg hreinskilinn við ykkur, þá verð eg að kannast við það, að þessi viðkvæmni fyrir Móselögum hefir mér alt af fundist dálítið skringileg. Eg hefi aldrei orðið var við, að menn hneykslist neitt verulega á því, þó að brotið sé á móti lögmáli Jesú Krists. Eg hefi margsinnis heyrt menn stæra sig af því, að þeir h a t i suma menn, og að það væri þeim mikil ánægja að gera þeim hitt og annað til meins. Menn hlusta á slíkt einstaklega rólega og þeim finst það ekki nema eðlilegt og sjálfsagt. Kristur bauð mönnum þó að elska alla menn, líka óvini sína. Langfæstir telja það nokkura synd að brjóta móti þessu boðorði. Það er ekki talin svo mikil synd að h a t a. En ef til dæmis að taka harmþrungin móðir e l s k a r framliðið barnið sitt svo heitt, að hún vill fyrir hvern mun fá alla vitneskju um það í öðrum heimi, sem henni er unt, hvað sem Móselögum líður, leitar sambands við það, og finnur ómetanlega hugsvölun í því að komast að raun um, að barnið heldur áfram að unna henni, engu minna en hér í heimi — þá er þetta talið mjög viðsjárverð synd. Ekkert er það látið bæta fyrir móðurinni, þó að guðspjöllin sýni mönnum skýlaust, að Jesús Kristur hafi sjálfur leitað sambands við framliðna menn á undan burtför sinni úr þessum heimi, og þó að kristnin sjálf sé

grundvölluð á því sambandi, sem hann fékk komið á við jarðneska menn, eftir að hann var sjálfur kominn til æðri heima. Finst ykkur ekki eitthvað vera bogið við þetta? Finst ykkur ekki þetta benda á, að hugmyndir sumra manna um andlegt og siðferðilegt verðmæti muni ekki vera í sem beztu lagi? Og finst ykkur ekki, að það muni geta verið neitt ísjárvert frá kristilegu sjónarmiði að setja Móselög langt fyrir ofan breytni Jesú Krists sjálfs?

Þetta kynni að verða ofurlítið skiljanlegra, ef við værum nokkuð að reyna að halda Móselög að öðru leyti. En þið vitið öll, að það reynum við ekki. Við brjótum daglega, undantekningarlaust allir, gegn fyrirmælum í Móselögum, sem eru alveg jafn-skýlaus eins og bannið gegn því að leita frétta af framliðnum. Við mötumst varla svo, Íslendingar, að við brjótum ekki gegn Móselögum. Og öllu okkar lífi högum við alt annan veg en Móselög mæla fyrir. Ef einhver okkar færi að lifa eftir sumum fyrirmælum Móselaga, þá fengi hann að minsta kosti æfilangt betrunarhús, og líklegast yrði hann hálshögginn — ef hann yrði ekki látinn njóta þess, að hann væri talinn brjálaður.

**Ekki ætlað að vita.**

Aðrir bera fyrir sig þá mótbáru, að það, hvað lítið okkur hefir verið „opinberað" um annan heim, bendi á, að okkur sé ekki ætlað að vita meira um hann en við vitum. Ef mannkynið hefði yfirleitt farið eftir þeirri hugsun, þá hefði lítið orðið úr þekkingar-framförum þess. Okkur hefir ekki verið mikið „opinberað" um þennan heim. Guð hefir auðsjáanlega talið það nóg að gefa okkur vitsmunina og aðra hæfileika, sem við höfum þurft á að halda.

Svo höfum við mátt gera svo vel að hafa fyrir því að beita þeim, til þess að öðlast þekkinguna. Það hafa verið þeir tímar, að þá leit eftir þekkingu á jarðneskum efnum hafa fáfróðir menn talið syndsamlega, gagnstæða tilætlun guðs. Þeir allra-fáfróðustu hafa venjulega verið ótrauðastir til þess að fullyrða um það, hvað alvizkan sjálf ætli fyrir sér. Nú eru flestir, líklegast nokkurnveginn allir, komnir á þá skoðun, að okkur sé leyfilegt að afla okkur þekkingar á öllum efnum, sem heyra til jarðnesku lífi. En þeir eru margir, sem draga þar strik og segja: Hingað en ekki lengra með þekkinguna! Mér finst sú takmörkun fyrir þekkingar-þrá mannsandans alveg ástæðulaus. Frá sjónarmiði trúmanna finst mér hún sérstaklega mikil fásinna. Hvað er þekkingin í ljósi trúarinnar? Fyrst og fremst opinberun á dýrð guðs. Verulega trúhneigðir menn líta alt af svo á. Hvernig getið þið hugsað ykkur, að það sé gagnstætt fyrirætlunum guðs, að við öflum okkur þess skilnings á dýrð guðs, sem okkur er unt að afla okkur? Hafið þið nokkurn tíma heyrt færð nokkur skynsamleg rök að því? Eg hefi ekki heyrt það. Og eg hefi aldrei heyrt neinar skynsamlegar ástæður færðar að því, að máttarvöldum alheimsins sé ekki trúandi fyrir því að skamta okkur þekkingar-möguleikana í samræmi við vilja föður okkar á himnum.

**Annar heimur óverulegur.**

Hvernig stendur á því, að menn draga þetta strik, gera þennan mikla mun á rannsókn jarðneskra efna og rannsókn á því, sem heyrir öðrum heimi til? Aðalorsökin er vafalaust sú, að annar heimur er svo óverulegur í hugum manna. Ef þeir gerðu sér þess grein, að framliðnir menn eru alveg sömu

mennirnir eins og þeir voru hér á jörðinni, með sömu skynsemi, sömu tilfinningar, sömu endurminningar, sömu eftirlanganir, að mjög miklu leyti sömu takmarkanir, þá get eg ekki skilið, að menn mundu fremur telja sjálfsagt að afrækjast ástvini sína í öðrum heimi en þessum. Ef barn okkar í þessum heimi breiðir móti okkur faðminn, þá hrindum við því ekki frá okkur. Við lútum niður að því, eða tökum það upp, og kyssum það. En fæstir okkar finna neina köllun hjá sér til þess að vera góðir við börnin sín, eftir að þau eru komin inn í annan heim. Af hverju ætti það að koma öðru en því, að framliðnu börnin eru orðin óveruleg í hugum okkar? Þið getið reitt ykkur á það, að væru þau jafn-veruleg í hugum okkar eins og þegar við vorum að breiða ofan á þau, eða bera þau á handleggnum, eða lauga á þeim líkamann, sem okkur fanst yndislegastur í allri tilverunni, eða leggjast út af hjá þeim, eða kenna þeim faðirvor, — þá mundum við ekki spyrja Móselög um leyfi til þess að halda áfram að hafa afskifti af þeim, ef þess væri kostur. Og þá mundum við ekki vera að búa okkur til aðrar eins grýlur og þá, að guð ætlaðist ekki til þess. Við gengjum að þeim afskiftum sem jafn-sjálfsögðum, eins og afskiftin af jarðneskum ástvinum okkar eru.

**Mönnum gezt ekki að vitneskjunni.**

Loks kem eg að þeirri mótbárunni á sviði trúarlífsins, sem mér finst í raun og veru mest um vert. Mörgum gezt alls ekki vel að þeirri vitneskju, sem fengist hefir, eða fullyrt er að fengist hafi, við rannsókn dularfullra fyrirbrigða. Trúmennirnir finna til þess, að hún breyti trúarhugmyndunum. Sumt af því, sem hefir verið þeim dýr-

mætt, finst þeim verða að engu. Ný atriði koma, sem sumum finnast ekki vekja neina huggun né hughreysting.

**Sæla og vansæla.** Eg get ekki farið langt út í þá sálma að þessu sinni — að eins bent lauslega á eitt dæmi. Í barnalærdómnum hefir okkur verið kent það, að þegar eftir andlátið fari sálin annaðhvort í eilífa sælu eða eilífa vansælu, eftir því, hvort maðurinn hefir lifað hér í heimi vel eða illa. Við sláum vanalega strik yfir vansæluna í huga okkar. Við trúum ekki á hana. Það er vafalaust undantekning nú orðið, ef nokkur Íslendingur hugsar sér, að nokkur maður hafi farið í eilífar kvalir. Menn trúa því, að þeir fari í eilífa sælu. Ef menn iðrist einhvern tíma fyrir andlátið, þá taki náð guðs þá að sér. Ef þeir iðrist ekki, þá verði einhvern veginn séð um það, að þeir gjaldi ekki synda sinna, og að þeim geti liðið vel. Því að náð guðs sé óendanleg. Sennilega hafa einhverjir ykkar spurt eða heyrt spurt, hvernig dauðvona manni liði. Og ef maðurinn hefir þá verið dáinn, hefir komið svarið: „Nú líður honum vel.“ Allur þorri manna er farinn að hugsa sér, að okkur líði öllum vel, þegar við höfum losnað við þennan líkama, sem hefir reynst mörgum svo mikill vandræðagripur.

**„Drottinn og Pétur postuli.“** Ekki er þess að dyljast, að vitneskjan, sem rannsókn dularfullra fyrirbrigða hefir flutt, breytir þessum hugmyndum töluvert. Eg minnist þess ekki, að hafa séð nýju hugmyndirnar koma fram í ljósara og einfaldara búningi en í sögu Selmu Lagerlöf: „Drottinn og Pétur postuli.“ Postulinn er í himnaríki. En þar er hann harmþrunginn út af móður sinni, því að hún er í helvíti. Það titrar í honum hver

taug af meðaumkun með móður sinni, og honum finst jafnvel, að hann eigi það skilið, að fá að hafa móður sína hjá sér. Drottinn Kristur verður hryggur út af sálarstríði postulans. Því að móðir hans hafði ekki verið svo skapi farin, að hún gæti komist inn í sælu himnaríkis. Hún hafði aldrei hugsað um annað en peninga, og við bágstadda menn hafði hún verið miskunnarlaus. Drottinn bendir honum á, að móðir hans muni ekki þrífast í himnaríki. En postulinn situr við sinn keip. Og þá er engill sendur til þess að sækja hana neðan úr helvíti til himnaríkis. Hann finnur konuna og lyftir henni upp á vængi sína, og postulinn ætlar að fara að gráta af fögnuði. Þá hengir fjöldi af öðrum vansælum sálum sig utan í hana, til þess að njóta góðs af þeirri einkennilegu ferð, sem nú fellur milli heimanna, paradísar og vansæluheimsins. Postulanum þykir þetta mikil sæmd fyrir móður sína, að eiga kost á að hjálpa svona mörgum vansælum sálum úr glötuninni. En móðir hans er ekki að hugsa um það. Hún þrífur um hendur þeirra, losar um handtök þeirra og hver eftir aðra detta þær niður í djúpið. Postulinn hrópar til hennar, biður hana í guðs bænum að vera miskunnsöm við þessa vesalinga. En hún sinnir því ekkert. Að lokum var ekki eftir nema ein vansæl manneskja, sem hékk á móður postulans. En gamla konan er þangað til að rífa í hana og rykkja, að hún fær líka hrist hana af sér. Þá var eins og engillinn misti máttinn. Hann misti tökin á gömlu konunni og hún hrapaði niður í djúpið. En Pétur postuli grét lengi og beisklega.

„Aldrei hefði eg trúað því,“ sagði drottinn, „að þú

mundir gráta svona, sankti Pétur, fyrst þú ert kominn í sælustaðinn.“

Þá hóf þessi gamli þjónn guðs upp höfuð sitt og mælti: „Hvaða sælustaður er þetta, þar sem eg heyri kveinstafi kærustu ástvina minna og horfi á þrautir náunga míns?“

En ásjóna drottins varð dimm af sárustu sorg. „Hvað ætli eg vilji annað fremur en að búa ykkur öllum sælustað, þar sem ekkert er annað en sólbjört hamingja?“ mælti hann. „Skilurðu það ekki, að það var erindið, þegar eg fór niður til mannanna og kendi þeim að elska náungann eins og sjálfan sig? Því að meðan þeir gera það ekki, er enginn griðastaður til á himni né jörðu, þar sem sársaukinn og sorgin geta ekki náð þeim.“

**Tilveran samfeld heild.**

Pétur er í sælustaðnum. En jafnvel þar er hann sorgbitinn, af því að þeir eru sumir vansælir, sem hann ann hugástum. Með öðrum orðum: tilveran er svo samfeld heild, að enginn getur orðið sæll, meðan einhverjir aðrir eru vansælir. Því betri sem mannverurnar verða, því næmari verður tilfinning þeirra á bágindi annara. Og að hinu leytinu: Meðan mannverurnar vantar kærleikann, getur ekki sjálfur drottinn Kristur komið þeim inn í sæluna, þó að hann sendi engla sína eftir mönnunum. Þeir eru ekki færir um að veita henni viðtöku — ekki þeirri sælu, sem um getur verið að tefla, þegar holdlegar nautnir eru orðnar að engu og lífið er alt orðið andlegs eðlis.

Þetta, sem Selma Lagerlöf er að segja í þessari sögu, er eitt aðalatriðið í þeirri vitneskju um lífið hinumegin, sem fengist hefir við rannsókn dularfullra fyrirbrigða. Vitanlega ber ekki að dyljast þess, að allur þorri þeirra

2*

framliðinna manna, sem gert hafa vart við sig, tjá sig hafa skift svo um til batnaðar, að naumast verði saman borið, af því að það tilverustig, sem þeir eru komnir inn á, sé alt miklu æðra og fullkomnara en jarðneska stigið.

**Úr mógröf upp á fjallstind.**

„Hefir þú nú breytt um til betra?“ spurðum við Tilraunafélagsmenn í Rvík einu sinni framliðinn mann, sem var að tala við okkur. Eg leyfi mér að nefna þá vitsmunaveru „framliðinn mann,“ þó að eg gangi að því vísu, að stundum séu þær verur, sem við menn tala á tilraunafundum, ekki framliðnir menn, heldur einhverir þættir úr vitundarlífi miðlanna sjálfra. En þessi vera sannaði svo ramlega, hver hún væri, að undan þeim sönnunum tel eg ókleift að komast. „Hefir þú nú breytt um til betra?“ spurðum við. — „Hugsið þið ykkur,“ sagði hann, „að flytjast alt í einu úr mógröf upp á fjallstind í yndislegasta veðri, þegar sólin er að koma upp.“ — Lík svör eru mjög algeng um allan heim.

**Örðugleikarnir geta orðið miklir.**

En að hinu leytinu ber því ekki að gleyma, og á það eru aldrei dulur dregnar frá öðrum heimi, að örðugleikarnir þar geta orðið miklir um stund, þeim sem eru mjög illa hæfir fyrir hinn nýja heim. Menn verða að hafa nokkuð fyrir því að verða hæfir fyrir þann heim. Því minna verk sem menn hafa lagt í það í þessu lífi, því meira verk verða menn að leggja í það í öðru lífi. Það er í mínum augum meginkjarni hinnar nýju vitneskju um annað líf. Þessi vitneskja varpar nýju ljósi yfir ummæli Krists um „myrkrið fyrir utan“, sem hefir verið lagt út rangt í eldri biblíuþýðingum og nefnt „yztu myrkur“. Það virð-

ist vera reynsla sumra manna fyrst eftir að þeir koma inn í annan heim, að það er eins og skilningarvitum þeirra sé lokað fyrir þeim unaði og þeirri gæzku, sem í raun og veru er umhverfis þá.

**Ekki yfirgefnir.** En við megum ekki fyrir nokkurn mun hugsa okkur, að þeir, sem eiga eitthvað bágt í öðrum heimi, séu yfirgefnir af guði og góðum mönnum. Eins og eg sagði áðan: því betri sem mannverurnar verða, því næmari verður tilfinning þeirra á bágindi annara. „Þegar kærleikslaus sál kemur hingað," segir Júlía í einu af bréfum sínum til Steads, „er eins mikið um það hugsað að fagna henni, eins og þegar kærleiksrík sál kemur." „Helvíti er til hérnamegin, eins og himnaríki," segir hún í öðru bréfi. „En það er fögnuður himnaríkis að vera stöðugt að tæma helvíti."

**Ný vitneskja óvinsæl.** Það er þessi vitneskja, sem mörgum veitir svo afar-örðugt að sætta sig við. Mönnum hefir ávalt veitt örðugt að sætta sig við nýja vitneskju, sem eitthvað hefir komið nálægt trúmálasviðinu. Þegar framþróunarkenningin kom upp, þá vakti hún hrylling og andstygð í sálum margra manna, alls þorrans er víst óhætt að segja. Mönnum fanst tign mannsins vera að fara forgörðum, ef þeir áttu að trúa því, að maðurinn væri runninn upp úr dýraríkinu. Nú eru þeir víst fáir, sem gera sér grillur út af því. Og hugsið ykkur þá óhemju-umturnun, sem kenningar Krists gerðu á erfikenningum Gyðinga. Það var svo sem ekki neitt undarlegt, að þeir krossfestu hann, né heldur hitt, að fariseinn Sál legði kapp á að bæla niður hreyfingu, sem honum hefir fundist vera að kollvarpa öllum dýrmætustu hugsjónum

þjóðar sinnar — þangað til hann fékk að sjá meistarann úr öðrum heimi og gerðist Páll postuli.

Mörgum trúuðum mönnum veitir örðugt að sleppa hugmyndinni um algerða sælu, þegar yfir um er komið, og að sætta sig við hugsunina um það, að þeir eigi að byrja þar á einhverju nýju striti og nýjum örðugleikum. Fyrir þá sök vilja þeir ekki aðhyllast þessa nýju vitneskju, eins og loka sig inni fyrir henni. Mér finst þetta vel skiljanlegt. Samt held eg, að það stafi af því, að þeir hugsi ekki málið nógu vandlega. Mér finst, að eilífðin mundi verða óþolandi, ef hún væri gjörsneydd öllu starfi. Og öllu starfi fylgir mótspyrna og áreynsla og örðugleikar. Að hinu leytinu finst mér, að annað líf mundi verða mun lægra og óvirðulegra, ef afstýrt væri þar vitneskjunni um örðugleika annara. En sú vitneskja girðir fyrir fullkomna sælu góðra manna.

**Menn, sem þrá hvíld.**

Þá eru aðrir menn, sem þrá hvíld, ekkert annað en hvíld, þó að það sé hvíld grafarinnar. Þeim er meinilla við allar vísindalegar sannanir fyrir áframhaldi lífsins eftir dauðann. Þeim er nokkuð sama um trúarbrögðin. Þau eru í þeirra augum ósannað, nokkuð meinlaust hjal. En vísindalegar sannanir hrista menn ekki af sér jafn-auðveldlega. Af þessu stafar mótþróinn hjá þessum mönnum. Og þeir eru alls ekki fáir. Eg þekki þennan mótþróa vel. Eg hefi orðið hans var hjá sumum af mínum beztu vinum. Mér finst líka eg skilja þessa hvíldarþrá sæmilega vel. Stundum hefi eg verið nokkuð þreyttur sjálfur. En til hvers er að loka augunum og þverskallast við sannleikanum? Til hvers er að vilja eitthvað annað en sannleikann? Yfir-

leitt spyr ekki tilveran um það, hvað við viljum. Hún segir um flest efni: Þetta og þetta er sannleikur. Gerið þið svo vel að fara eftir því. Þetta og þetta er lögmál. Ef þið takið það ekki til greina, þá kemur það ykkur sjálfum í koll.

Og eg held nú ekki, að við þráum algerða hvíld, nema þegar sál okkar er ekki sem heilbrigðust. Eg kannast við það, að stundum er sú hugsun lokkandi. En æðri, göfugri, háleitari er sú hugsun, að maðurinn sé í sínu insta eðli guðdómleg vera, að hann sé gæddur óendanlega miklu dýrlegri hæfileikum en þeim, sem fá notið sín í þessu lífi, og að honum sé ætluð eilífðin til þess að veita þeim hæfileikum þroska. Eg vil ekki fullyrða, að rannsókn dularfullra fyrirbrigða hafi sannað þetta jafn-ómótmælanlega eins og t. d. það, að framliðnir menn lifi eftir dauðann. En hitt er víst, að hún bendir mjög ákveðið í þá áttina. Og finst ykkur ekki eins og mér, að hvíldar-þráin verði nokkuð fátækleg og lítilsigld í samanburði við þessa eilífðar-von?

**Mótþróinn í ósanngjarnlegri mynd.**

Áður en eg hætti að tala um þann mótþróa, sem stendur í sambandi við trúarhugmyndir manna, get eg ekki bundist þess að víkja að því örfáum orðum, að mér finst sá mótþrói koma stundum fram í nokkuð ósanngjarnlegri mynd. Eg ætla ekki að gera langa rekistefnu út af því efni. En eg ætla að benda ykkur á eitt dæmi. Menn ráðast á rannsóknarmennina fyrir það, að atferli þeirra sé andstætt heilagri ritningu og kristinni trú yfirleitt. Þyki rannsóknarmönnum nokkurs vert um þá mótbáru, af því að þeir vilji sjálfir telja sig kristna menn, þá virðist liggja

nokkuð beint við, að þeir athugi ritninguna einmitt frá því sjónarmiði. Það var þetta, sem prófessor Har. Níelsson gerði í prédikun, sem hann flutti í Reykjavík síðastl. vetur, og síðar var prentuð í Ísafold. Hann sýnir þar meðal annars fram á, að hann fái ekki skilið, að það sé neitt óguðlegt athæfi að koma saman í því skyni að reyna að ná tali af framliðnum mönnum, af því að Jesús frá Nazaret hafi haldið slíkan fund með þremur lærisveinum sínum og talað þá við framliðna menn, Móse og Elía. Og hann sýnir jafnframt fram á, að það geti naumast verið neitt rangt af framliðnum mönnum að reyna að birtast hér á jörðinni og komast í samband við okkur jarðneska menn, af því að Jesú Kristur hafi margsinnis birzt og talað við jarðneska menn eftir andlátið. Í því efni hafi drottinn vor og meistari sjálfur gengið á undan og ekki gefið það í skyn með einu orði, að það sem honum væri leyfilegt, það væri bræðrum hans bannað. Þetta virðist vera eðlilegt svar. Og mér er spurn: Hvernig er hugsanlegt að svara slíkum árásum öðruvísi en eitthvað á þá leið, sem prófessorinn svaraði þeim? Út úr þessu ritar einhver prestur í Bjarma 1. júní síðastl. Hann reynir ekki að hnekkja þessari rökfærslu prófessorsins með einu orði. En hann lýsir yfir sorg sinni út af því, að hann skuli hafa notað frásögnina um ummyndunina á fjallinu svona — notað hana til þess að gera spíritismann dýrlegan, eins og hann kemst að orði. Hann hryggist með öðrum orðum út af því, að prófessorinn skuli hafa leyft sér að nota ritninguna til þess að sanna það, að hann sé í samræmi við ritninguna. Hvað ætli, að hann hafi átt að nota annað?

Rannsóknin þarf ekki stuðning frá ritningunni.

Annars verð eg að taka það fram sem mína skoðun, að sú vitneskja, sem fengist hefir við rannsókn dularfullra fyrirbrigða, þarf ekki að halda á neinni vörn né neinum stuðningi frá ritningunni. Eg er ekki með því að gera lítið úr ritningunni. En vísindalegar staðreyndir þurfa ekki að verja sig með neinum gömlum ritum, hvað heilög sem þau eru. Þær standa á sínum eigin fótum. Það er ritningin, eða réttara sagt þeir, sem unna henni heitast, sem þurfa að halda á rannsókn dularfullra fyrirbrigða. Það er ekki eingöngu að almenningur manna — að eg ekki tali um vísindamennina, sem, þegar til lengdar lætur, alt af ráða almenningsálitinu — hafi hætt að taka trúanlegar frásagnir ritningarinnar um afskifti hins andlega heims af jarðneskum heimi. Guðfræðiprófessorar og prestar úti um allan hinn mentaða heim hafa verið að snúast á sömu sveifina. Og þegar menn eru hættir að trúa þeim staðreyndum frá andlegum heimi, sem ómótmælanlega hafa hrundið stofnun kristninnar af stað, þá er alt kristið trúarlíf áreiðanlega í hættu. Það er rannsókn dularfullra fyrirbrigða, sem er að gefa mönnum aftur trúna á þær staðreyndir. Enginn hefir, mér vitanlega, orðað þetta snjallara en frægasti sálarlífs-rannsóknamaðurinn enski Frederic Myers, þar sem hann segir, að vitneskjan, sem rannsókn dularfullra fyrirbrigða hafi fært mönnunum, sé svo mikilvæg, að ef hún hefði ekki komið, mundi enginn skynsamur maður hafa trúað á upprisu Krists eftir 100 ár; en vegna hinnar nýju vitneskju muni enginn skynsamur maður véfengja hana eftir 100 ár.

**Undan fönnum.** Er það ekki nokkuð undarlega gert af kirkjunnar mönnum að vonzkast út af því, að trúin á upprisu Jesú Krists breytist í vissu — eða réttara sagt út af því, að þeirri trú verður bjargað frá því að verða að engu? Getur það verið, að mönnum finnist það rétt að amast við því, að sannfæringin um annan heim fái stuðning víðar að en að undanförnu? Mér dettur í hug stórkostlega snjalt erindi úr óprentuðu kvæði eftir Þorstein Erlingsson:

Þau vissu það, völdin á Fróni,
þeim var ekki' í tigninni hætt.
Þau vissu það bezt, hvað þar mátti sín mest,
og myrkrið gekk tæplega' úr ætt.
Þau ugðu' ekki neitt, fyr en útsker og sveit
stóð iðandi af vöknuðum mönnum,
og dagmálahnúkur úr dimmunni leit
og dalurinn grænn undan fönnum.

Það er áreiðanlegt, að margir menn út um allan heim hafa „vaknað“ við það að hafa öðlast þá vissu um annan heim, sem rannsókn dularfullra fyrirbrigða hefir flutt — og það er líka farið að gerast hér á landi. Dalirnir eru farnir að koma grænir undan fönnum efnishyggjunnar. Mér finst nokkuð líkt því, sem „myrkrið gangi tæplega úr ætt“ hjá þeim mönnum, sem amast við slíkri breytingu.

*   *   *

**Tilraunirnar hættulegar.** Eg kem þá að mótbárum, sem eru alt annarar tegundar. Þær eru í þá átt, að tilraunirnar við rannsókn dularfullra fyrirbrigða séu hættulegar. Margir halda, að þær séu hættulegar fyrir miðlana, fyrir aðra tilraunamenn og fyrir framliðna menn.

Ykkur kann að furða á svari mínu. Já, það má vel segja, að þessar tilraunir sjeu hættulegar. En eg veit ekki um neitt, sem stefnir að því að auka þroskann og ekki er meira og minna hættulegt. Alt getur verið hættulegt. „Eg geng í hættu hvar eg fer," segir sálmaskáldið. Það er hættulegt að stíga upp á stól. Menn geta stórslasast á því. Það er hættulegt að fara út á sjó. Menn geta druknað. Það er hættulegt að fara á hestbak. Menn geta dottið af baki. Það er hættulegt að slá gras. Eg hefi séð menn skera sig á ljánum. Það er hættulegt að ganga í hjónaband. Það getur farið illa. Það er hættulegt að mentast. Menn geta orðið óánægðir með sín kjör, drukkið í sig óhollar skoðanir og farið illa með þekking sína. Sú var tíðin, að prentlistin var talin mesta hætta mannkynsins — og auðvitað var hún hættuleg. Aðalhætta mannanna er sú að verða til og fæðast.

Svo er fyrir þakkandi, að mennirnir miða ekki alt við hættuna. Ef þeir hefðu gert það, þá væru þeir enn ekki annað en dýr. Þeir meta hættuna, hvað hún er mikil. Og þeir jafna henni saman við það, til hvers er að vinna. Þá, sem ekki gera það, teljum við aumingja, brjóstumkennanlega vesalinga.

**Hættulegt miðlunum.**

Við komum þá fyrst að hættunni fyrir miðlana. Margir halda, að hún sé voðaleg. Sumt fólk ætlar að verða vitlaust, ef miðilsgáfan gerir vart við sig hjá einhverju skyldmenni þeirra, og manneskjan, sem gædd er þessari dásamlegu gáfu, fer að hugsa sér að nota hana eitthvað. Við hvað eru menn hræddir? Aðallega er það sams konar fælni, sem grípur stundum skynlausar skepnur, þegar þær verða einhvers varar, sem þær vita ekki, hvað er. Því að fæstir vita, hvað er í raun og veru að óttast.

**Hættulegt heilsu miðlanna.**

Það er orðið nokkurs konar þjóðtrú, að það sé hættulegt fyrir heilsuna að vera miðill. Stundum kemur sú þjóðtrú fram á nokkuð skoplegan hátt. Þið hafið sjálfsagt öll heyrt það fullyrt, að Indriði Indriðason hafi ekki verið annað en svikamiðill — að á tilraunafundum hafi hann læðst um gólfið á sokkaleistunum, til þess að blekkja okkur með ýmsu móti. Svo fékk I. I. tæringu og andaðist úr henni, eins og kunnugt er. Nákvæmlega sömu mennirnir, sem höfðu borið það út, að miðilstarf I. hefði ekki verið fólgið í öðru en læðast um gólfið á sokkaleistunum, sögðu eftir andlát hans: „Þarna getið þið séð, hvað það er holt að vera miðill! Nú eru þeir búnir að drepa Indriða.“ Auðvitað var ekki verið að hafa fyrir því, að skýra það fyrir mönnum, hvernig það væri sjálfsagt að fá tæringu af því að læðast um gólfið á sokkaleistunum í heitu herbergi!

Að sjálfsögðu getur það verið óholt heilsunni að gegna miðilsstarfi, ef kjánalega og ógætilega er farið að. Svo er um flest, sem annars er holt og gott. Eg þarf ekki annað en minna ykkur á tilraunir til þess að herða og

stæla líkamann. Suma hafa þær tilraunir gert heilsulausa; aðra hafa þær drepið. Samt væri ekkert vit í því að segja, að það sé óholt eða hættulegt að reyna að herða og stæla líkama sinn. En það skal eg taka fram afdráttarlaust, að eg ræð öllum mönnum með miðilshæfileika frá því að gera tilraunir, ef þeir hafa ekki annaðhvort kynt sér málið sjálfir nákvæmlega, eða hafa með sér gætna og samvizkusama menn, sem hafa verulegt vit á málinu.

Að hinu leytinu er sannleikurinn sá, að örðugt mun að benda á aðra meiri heilsutrygging en þá, sem miðlarnir virðast hafa, eftir að verur úr öðrum heimi hafa tekið þá að sér. Sú er reynslan um allan heim. Sú hefir orðið reynslan um frú Piper, sem ensku og amerísku vísindamennirnir hafa gert mestar tilraunir með. Sú varð reynslan með D. D. Home, sem Sir William Crookes reyndi svo mikið við og dáðist svo mikið að. Slíkri upptalningu um útlenda miðla mætti halda lengi áfram. Og sama varð reyndin um I. I., þó að hann yrði ekki langlífur. Það vitum við bezt, sem vorum með honum daglega. Ástríkis-umönnunin af hálfu hinna ósýnilegu gesta var aðdáanleg og átakanleg.

**Merkileg lækning**

Mér finst rétt að segja ykkur eina sögu í þessu sambandi, sögu, sem mér er vel kunnugt um, og get ábyrgst að er sönn. Snemma á tilrauna-tímabili I. I. var við hans tilraunir ungur maður og fékk þar merkilega lækning, sem eg ætla ekki að gera að umræðuefni að þessu sinni. Svo leið eitthvað hálft annað ár. Á þeim tíma hafði sú breyting orðið, að merkilegir miðilshæfileikar í sérstaka átt höfðu komið í ljós

hjá þessum unga manni. Umönnunin og ástúðin hjá þeim verum, sem gerðu vart við sig hjá honum, var takmarkalaus. En þær sögðu okkur, að miðilshæfileiki hans yrði því miður ekki til frambúðar, og merki voru farin að sjást þess, að hann væri farinn að réna. Eina nótt fær hann mikinn hita. Ósýnilegir vinir hans segja okkur, að hann hafi fengið berkla í lungun, og af því stafi hitinn. Nú vilji þeir biðja okkur bónar, og henni megum við ekki neita, því að það verði síðasta bónin þeirra. Hún sé sú að sækja ekki lækni. Þ e i r geti læknað sjúklinginn. En þeir séu hræddir um, að jarðneskur læknir muni spilla lækningu þeirra. Þetta verði síðasta bónin fyrir þá sök, að nú verji þeir leifunum af miðilshæfileika piltsins til þess að lækna hann. Þegar það sé um garð gengið, geti þeir ekki talað við okkur framar. Hér var óneitanlega úr vöndu að ráða. Pilturinn var mikið veikur. Og það var meira en lítill ábyrgðarhluti að vitja ekki læknis. Við réðum af að láta að orðum hinna ósýnilegu vina hans. Andspænis þeim, sem áfellast okkur fyrir þetta, höfum við ekki annað okkur til málsbótar en það tvent: a ð sjúklingurinn vildi það fyrir hvern mun sjálfur, og a ð ósýnilegu gestirnir lofuðu statt og stöðugt að lækna piltinn á ákveðnum tíma, tóku fyrirfram til daginn, sem hann skyldi komast á fætur alheill. Við mældum hitann á hverjum degi, og þið getið reitt ykkur á, að okkur var órótt. Verst þótti okkur það um tíma, að sjúklingurinn misti alveg matarlystina. Hverra bragða, sem leitað var, fór ekkert ofan í hann. Þegar þetta lystarleysi var orðið nokkurra daga gamalt, sögðu ósýnilegir vinir hans, að þeir yrðu að taka til sinna ráða: Þeir mundu taka hann

í „trance“, þá skyldum við hafa til nógan mat, og upp frá því mundum við ekki þurfa að hafa áhyggjur út af því. Þetta verður, pilturinn fellur í „trance,“ og þá étur hann þau ósköp, að hann var eins og óseðjandi. Sumir okkar urðu hálfskelkaðir við þetta át. En sjúklingnum varð ekkert meint við það. Honum fór að batna. Og nákvæmlega á tilteknum degi er sótthitinn horfinn, pilturinn fer á fætur, gengur nokkuð langan veg og kennir sér einskis meins. En miðilsgáfan var sama sem horfin, og hefir aldrei komið síðan, svo teljandi sé, þó að maðurinn hafi hvað eftir annað gert sams konar tilraunir og áður, og þráð það að fá hæfileikann aftur.

Eitthvað fimm árum síðar er hann staddur í Kaupmannahöfn. Hann fær vont kvef, og maður, sem lét sér ant um hann, ræður honum til að fara til læknis. Hann gerir það, og læknirinn skoðar hann. Hann sagðist halda, að þetta væri ekki annað en kvef. „En þér hafið einhvern tíma haft berkla í lungunum,“ sagði hann. Pilturinn neitaði því. Þessi lega hans, sem eg hefi sagt ykkur frá, var honum alveg úr minni liðin, enda hafði hann aldrei fengið neina staðfesting á því, að hann hefði nokkurn tíma fengið þann sjúkdóm. Lækninum þótti það kynlegt. Hann kvaðst ekki vita betur, en að hann heyrði greinileg merki þess í lungunum. „Þér skuluð fara til sérfræðings,“ sagði hann, skrifaði með honum bréf og sendi hann af stað tafarlaust til brjóstveikislæknis. Á leiðinni milli læknanna rann upp ljós fyrir piltinum. Jú, hann hafði legið þessa undarlegu legu fyrir 5 árum. En auðvitað lét hann einskis getið við lækninn, sem hann kom nú til. „Þetta er ekki annað en kvef,“ sagði læknirinn. „En hvenær hafið

þér legið í tæringu?“ „Aldrei,“ sagði sjúklingurinn. „Aldrei?“ sagði læknirinn. „Það var merkilegt. Eg heyri örin í báðum lungunum. Það hafa verið mikil brögð að berklunum. Jæja, þetta er ein sönnun þess, að menn geta fengið berkla í lungun og læknast af þeim, án þess að vita nokkuð af því.“ En hann lét greinilega á sér skilja, að hann hefði ekki átt von á því, að berklar gætu komist svona langt, án þess að sjúklingurinn yrði neins var.

Eg segi ykkur ekki þessa sögu í því skyni að halda því fram, að hún út af fyrir sig, sé sönnun fyrir lækningu úr öðrum heimi. Mér er það vel ljóst, að hún er það ekki. Það má segja, að það sé ósannað mál, að það hafi verið berklar, sem að piltinum gengu í þessari legu. Sótthitinn hafi getað stafað af einhverju öðru, þó að leifar eftir berklasjúkdóm fyndust síðar. Það má líka segja, að þó að þetta hafi verið berklar, þá hafi lífsafl sjúklingsins verið einfært um að ráða við sjúkdóminn, og að einhverjum óþektum vitsmunum í djúpi sálar hans hafi verið kunnugt um, að lífsaflið yrði einfært um það, og hvaða dag lækningunni yrði lokið. Fyrir það útsýni, sem eg hefi fengið yfir rannsókn dularfullra fyrirbrigða í heild sinni, held eg ekki, að þetta sé rétta skýringin. Eg held, að framliðnir menn hafi átt hér hlut að máli, eins og fullyrt var í ósjálfráðri skrift og meðvitundarleysisástandi miðilsins. En eg er ekkert að deila við þá menn, sem vilja skýra þetta hinn veginn. Eg segi ykkur þessa sögu eingöngu sem dæmi þeirrar reynslu, er verið hefir um heilsufar miðlanna um allan heim, þar sem miðilsgáfan hefir verið á háu stigi. Þau vitsmunaöfl, sem taka miðlana í þjónustu sína, — hvað sem þið nú viljið úr

þeim öflum gera, hvort sem þið haldið, að þau séu einhverjir þættir úr vitundarlífi miðlanna sjálfra, eða sjálfstæðar verur utan við þá — þau öfl vaka yfir heilsu þeirra með einhverjum dularfullum hætti, þó að þau geti ekki gert þá ódauðlega. Og eg hefi aldrei heyrt getið um nokkurn miðil, sem nefnandi er því nafni, og hefir getað hugsað til þess öðruvísi en með sárri sorg, að missa af sambandi við hina ósýnilegu vini sína — meðfram og ekki sízt heilsunnar vegna.

**Áhrif frá ósýnilegum verum.**

Um aðra hættu fyrir miðlana er nokkuð mikið talað í öðrum löndum, sérstaklega af mönnum, sem trúa á samband við annan heim, en hafi beyg af því. Eg hefi ekkert haft af þeirri hættu að segja í minni reynslu. En eg geri ráð fyrir, að hún sé ekki eingöngu hugarburður. Hún er í stuttu máli sú, að fyrir þau áhrif, sem ósýnilegar verur hafi á miðlana, geti vilji þeirra veikst, sjálfstæði þeirra orðið minna, magn persónuleikans rýrnað og siðferðismeðvitundin spilst, ef ógöfugar, ósýnilegar verur ná tangarhaldi á þeim. Mér þykir ekki nema eðlilegt, að þessi hætta sé til. Hún er algeng í sambandi voru við jarðneska menn. Menn með veikan vilja verða oft fyrir alt of miklum áhrifum af mönnum með einbeittan vilja, og því lengur sem áhrifin standa, því meira veikist viljinn. Við því er ekkert annað ráð en að leggja stund á að efla viljann til þess sem gott er, nota þau öfl, sem lífið hefir á boðstólum, til þess að gera sjálfan sig að meiri manni, Eg hefi reynt að kynna mér þetta mál eftir föngum, og eg hefi hvergi séð þess dæmi, að góður og vandaður miðill hafi orðið fyrir hættulegum áhrifum frá verum

úr öðrum heimi. Hitt er áreiðanlega algeng reynsla, að miðlarnir verði fyrir góðum áhrifum frá verum úr öðrum heimi, að tilraunir séu gerðar þaðan til þess að forða þeim frá freistingum, að hugsanalífi þeirra sé lyft upp á æðra stig, og að sál þeirra sé, innan um margvíslega örðugleika og raunir, sem stafa af hleypidómum og heimsku mannanna, fylt þeim fögnuði og þeim unaði og þeirri vissu um sigur sannleikans og réttlætisins, sem flestir menn hafa ástæðu til að öfunda þá af.

Að hinu leytinu verðum við að hafa það hugfast, að rannsókn dularfullra fyrirbrigða hefir gefið okkur mikla ástæðu til að ætla, að mennirnir verði fyrir áhrifum úr öðrum heimi, hvort sem þeir gera nokkurar tilraunir til þess eða ekki, og hvort sem nokkur miðill notar gáfu sína eða ekki. En vafalaust koma þau áhrif langmest fram á mönnum með miðilshæfileikum. Það er mjög vafasamt, hvort þeir eru ekki oft í meiru hættu staddir af þeim áhrifum, ef þeir hafa enga hugmynd um þau og ekkert vit á þeim, en ef þeir iðka hæfileika sína, læra að vera á verði gegn því, sem kann að vera þeim skaðlegt, og festa bandalag við góðar verur, sem hafa bæði vit og vilja til þess að verða þeim að liði.

**Hætta fyrir tilraunamenn.**

Um hættuna fyrir aðra tilraunamenn en miðlana ætla eg að vera sem fáorðastur, og eins um hættuna fyrir framliðna menn. Eg get, hvort sem er, ekki sagt nema lítið af því, sem eg vildi segja. Aðalhættan fyrir jarðneska menn skilst mér eiga að vera sú, að þeir missi andlegt jafnvægi og taki að verða svo sólgnir í þau efni, sem heyra öðrum heimi til, að þeir afrækist þau efni, sem heyra til þessum

heimi. Þetta er auðvitað nákvæmlega sama hættan, sem fylgir því að fá nokkurt andlegt áhugamál. Þau geta öll sogað mann til sín með svo miklum krafti, að eitthvað verði út undan, sem æskilegt væri, að ekki yrði það. Og enginn dregur af því þá ályktun, að menn megi engin áhugamál eignast. En eg neita því gersamlega, að þessi sé reynslan sérstaklega um rannsókn dularfullra fyrirbrigða. Eg veit ekki betur, en að vitneskjan, sem við þá rannsókn hefir fengist, brýni það fyrir mönnum með alvöruþunga ódauðleika-vissunnar, hve afar-áríðandi það sé að gera skyldu sína í þessu lífi, á hverju sviði sem sú skylda liggur. Og eg veit ekki betur, en að sumir rannsóknamennirnir hafi verið meðal þeirra manna, sem borið hafa þyngstar menningarbyrðar hins siðaða heims, í vísindum, skáldskap, stjórnmálum, kaupsýslu o. s. frv.

**Hætta fyrir framliðna menn.**

Hætta framliðinna manna á að vera fólgin í því, að það tefji þroska þeirra í öðrum heimi, dragi þá niður á við, geri þá meira „jarðbundna“, sem kallað er, að vera nokkuð að skifta sér af þessum heimi. Mín reynsla kemur ágætlega heim við það vandaðasta og skynsamlegasta, sem eg hefi lesið um þetta mál. Og mín reynsla er þessi: Það eru þrír aðalflokkar framliðinna manna, sem leita sambands við jarðneska menn:

**Framliðnir menn, sem leita sambands.**

1. Menn, sem koma af kærleika. Stundum er sá kærleikur til málefnisins sjálfs — þess málefnis að koma á sambandi milli heimanna. Þeir telja það óumræðilega mikilsvert fyrir þennan heim og annan. Þann hugsanaferil getið þið meðal annars rakið í bréfum Júlíu til Steads.

Þeir fullyrða margir, að sér sé falið af æðri máttarvöldum, sem við þekkjum ekki, að vinna að því að koma því sambandi á.

Getið þið hugsað ykkur, að nokkuð, sem gert er af kærleika, dragi mann niður? Eg held, að hvenær sem einhver maður vinnur hér í heimi af kærleika að málefni, sem hann telur gott og háleitt, þá l y f t i þ a ð h o n u m u p p — alveg eins þó að hann við það sökkvi niður í kviksyndi hleypidóma, vanþakklætis og ófrægginga. Eg held, að það sé andlegt lögmál, og eg skil ekki annað, en að það lögmál gildi í öllum heimum föður okkar, sem er á himnum.

Stundum koma framliðnir menn af kærleika til einstakra manna. Eg held, að það, til dæmis að taka, sem jarðnesk móðir leggur á sig af kærleika til barnsins síns, muni l y f t a h e n n i u p p — þó að það sökkvi henni niður í fátækt og heilsuleysi og hinar og aðrar þrengingar. Og eg skil það ekki, að það muni draga hana niður í guðs augum, þó að hún vitji barnsins síns, eftir að hún hefir verið tekin frá því og flutt yfir í æðri heim.

2. Eru þeir framliðnir menn, sem koma í sárri neyð, harmþrungnar sálir, sem einhverra hluta vegna geta ekki enn samþýðst þeim heimi, sem þeir eru komnir inn í, eru ef til vill svo fjarri því að samþýðast honum, að þeir verða þar einskis varir annars en afleiðinganna af yfirsjónum sínum. Með þessar sálir koma venjulegast góðgjarnir, framliðnir menn, sem langar til að hjálpa þeim. Við vitum ekki, hvaða lögmál ræður þar, en reyndin virðist vera sú um allan heim, að auðveldasti vegurinn til þess að hjálpa þessum aumingjum sé sá, að

eins og sýna þeim inn í þennan heim, og láta þá verða hér fyrir ástúð, hughreysting og fyrirbænum. Það verður mér alla æfi ógleymanleg stund, þegar fyrsta framliðna manninum, sem svo stóð á fyrir, var hleypt að á tilraunafundi hjá okkur. Ýmsir okkar höfðu þekt hann, og málrómurinn var óbreyttur. Hann hafði verið mikill drykkjumaður og honum hafði mistekist að fara með líf sitt. Að lokum hafði hann fyrirfarið sér. Það kom hik á okkur af samúð og undrun. Og alvöruþungi tilverunnar fylti sálir okkar. En gesturinn var í meira lagi óþolinmóður. Hann var friðlaus af angist út af því, að svo kynni að fara, að hann yrði að hverfa á burt, áður en hann fengi að heyra einhvern okkar biðja föður okkar á himnum að fyrirgefa honum. Hann kom nokkurum sinnum oftar í sömu erindum. Og síðast kom hann til þess að þakka okkur fyrir það, sem við hefðum fyrir sig gert. Nú þurfti hann þess ekki lengur. Nú var hann farinn að finna það og vita það, að hann var eins guðs barn og þeir, sem minna hafði yfirsést. Eg get ekki hugsað mér, hvernig þessi koma hans til jarðnesks heims hefði átt að geta dregið hann niður á við.

3. Eru þeir menn, sem virðast koma til þess að gera ógagn, spilla fyrir tilraununum og skeyta skapi sínu á jarðneskum mönnum. Í því efni læt eg mér nægja að minna ykkur á ritgjörðir próf. Guðm. Hannessonar í Norðurlandi fyrir nokkurum árum um fyrirbrigði, sem hann var vottur að í Tilraunafélaginu. Mín reynsla er sú, að oft hafi koma slíkra gesta það í för með sér, að þeir sjái að sér. En hvort sem þeir gera það eða ekki, þá get eg ekki hugsað mér, að þeir séu svo hátt settir í öðru lífi, að þeir

dragist mikið niður við það að koma til okkar, þó að við séum ekki annað en jarðneskir menn.

Yfirleitt held eg ekki, að við þurfum að bæta ofan á aðrar áhyggjur okkar áhyggjunni út af þeirri hættu, sem við stofnum framliðnum mönnum í, með því að setjast inn í stofu og bíða eftir komu þeirra. Annað er það í raun og veru ekki, sem menn gera hérnamegin tjaldsins, að því undanteknu að tala við þá og athuga framkomu þeirra. Eg held, að framliðnir menn séu alveg eins færir um að hafa vit fyrir sér eins og jarðneskir menn. Og það virðist svo, sem þeim sé miklu betur forðað frá hættum í öðrum heimi en hugsanlegt er að við getum gert.

* * *

**Skeytin ómerkileg.**

Eg kem nú að alt annari tegund af mótbárum, og hún verður síðust þeirra, sem eg get minst á í þetta sinn. Og ekki get eg minst hennar nema lauslega. Mótbárur þessarar tegundar fara í þá átt, að skeytin, sem verið er að segja að séu úr öðrum heimi, segi okkur ekkert nýtt þaðan, séu ómerkileg að efni, gefi okkur engar nýjar leiðbeiningar fyrir þetta líf, og séu þar að auki full af staðhæfingum, sem sumpart séu hver annari gagnstæðar, sumpart sannist, að séu endileysa. Alt þetta bendi á, að hér sé um einhvers konar blekking að tefla. Frá öðrum heimi sé þetta fráleitt. Geti framliðnir menn á annað borð komið nokkurum skeytum, þá hljóti þeir að geta komið með nýja vitneskju, ort betur en jarðnesk skáld, sagt mönnum, hvernig þeir eigi að verjast sjúkdómum, uppgötvað nýjar vélar, fundið fólgið fé, og að minsta kosti geti

menn ekki búist við því, að framliðnir menn komi með bull og ósannindi úr öðrum heimi.

Ný vitneskja.

Við skulum taka sérstaklega þá mótbáru, að engin ný vitneskja hafi komið frá öðrum heimi. Eg held ekki, að sú mótbára sé rétt. En eg ætla ekki að fara neitt að rökræða það að þessu sinni. Hinu held eg fram, að þó að sú mótbára væri rétt, þá væri hún engin sönnun þess, að framliðnir menn eigi hér ekki hlut að máli.

Opinberun Krists.

Sannleikurinn er sá, að nákvæmlega sömu mótbárunni hefir verið haldið fram gegn opinberun Krists. Það hefir verið fullyrt með miklum rökum og af miklum lærdómi, að hann hafi ekki flutt neina nýja vitneskju, jafnvel ekki neina nýja kenningu. Samstæður alls séu í öðrum trúarbrögðum, sem voru eldri en kristnin. Samt er hann meistarinn mikli, sem hefir gert alla hluti nýja. Hann hefir ef til vill ekki gert það með því að boða nýjan sannleik. En hann hefir ómótmælanlega gert það með því að varpa nýju ljósi yfir gömul sannindi, með því að skerpa meðvitund mannanna um samband þeirra við guð, með því að gera hugmyndir þeirra andlegri, með því að gefa veröldinni nokkurt sýnishorn þess, hvernig hann, sem hann nefndi föður sinn á himnum, sé í raun og veru skapi farinn. Jafnvel eftir upprisuna kom hann ekki með neina nýja viteskju um þann heim, sem hann hafði farið í, svo kunnugt sé.

Hann stóð sýnilegur.

En hann stóð sýnilegur innan um lærisveina sína, eftir að þeir höfðu séð hann deyja á krossinum og lagt hann í gröf sína. Og það var nóg til þess að stofna kristnina og umturna gersamlega öllu hinu vestræna mannfélagi í öllum

efnum. Svo að ný vitneskja um annan heim er ekki að sjálfsögðu mælikvarði á mikilvægi opinberunarinnar.

**Opinberunin við rannsóknina.** Enginn má skilja mig svo, sem eg telji, að opinberunin, sem fengist hefir við rannsókn dularfullra fyrirbrigða, jafnist við opinberun Krists. En hún hefir samt gert alla hluti nýja í augum manna, sem skifta miljónum, og hún virðist vera á leiðinni til þess að gera alla hluti nýja í augum alls hins siðaða heims. Þegar allur svo nefndur kristinn heimur virtist vera á þeirri leið, að hann mundi missa trúna á opinberunina á Gyðingalandi, þá sem gerðist fyrir hér um bil 1900 árum, missa trúna á gildi eilífðarvonanna með öllu því, sem við þær vonir er bundið, þá gerðust þeir óumræðilega mikilsverðu viðburðir, að framliðnir menn tóku að sanna það, að þeir væru ekki síður lifandi nú en meðan þeir voru hér á jörðunni, — að vísindalegur grundvöllur fékst undir trúarbrögðin, — að alt útsýnið yfir tilveruna varð mikilfenglegra en nokkuru sinni áður.

Það er þetta, sem er aðalkjarninn í árangrinum af rannsókn dularfullra fyrirbrigða. Og þó að við verðum að kannast við það, að þeim árangri sé í einstökum atriðum ábótavant, þá er þessi kjarni svo merkilegur, að ekkert jafn-merkilegt hefir komið fram síðan á dögum Krists og postula hans.

**Lýsingar úr öðrum heimi.** Um lýsingarnar á lífinu í öðrum heimi er það í stuttu máli að segja, að í sumum atriðum hefir þeim alt af borið saman — t. d. um það, að lífið sé óslitin heild, þó að menn flytjist

inn á annað tilverustig, og að ástandið á æðra tilverustiginu sé að einhverju miklu leyti komið undir því, hvernig menn hafi verið undir það tilverustig búnir. En þegar til einstakra atriða kemur, þá eru lýsingarnar sumpart óljósar, sumpart virðast hver annari gagnstæðar. Við vitum ekki, hvernig á þessu stendur. Ef til vill stafar það, hvað lítið það er og óljóst, sem okkur er sagt, að einhverju leyti af því, að öðrum heimi sé einhvern veginn svo háttað, að honum verði ekki lýst á okkar jarðneska máli, nema þá helzt í einhverjum ófullkomnum líkingum. Þeir villimenn eru til, sem ekki eiga í sinni tungu hærri tölu en 5. Þá hluti, sem eru fleiri, nefna þeir „marga“. Gerum ráð fyrir, að við ættum að gera þeim mönnum skiljanlega flóknustu stærðfræði á þeirra tungu. Eg geri ráð fyrir, að það yrði ókleift. Eða hugsum okkur, að einhver vildi gera manni, sem alt af hefði verið heyrnarlaus og ekki hefði neina hugmynd um nótur, skiljanleg áhrifin af samspili margra hljóðfæra. Það yrði víst torvelt verk. Og að svo miklu leyti, sem annar heimur er allsendis ólíkur því, sem við höfum reynslu af, er lítt hugsanlegt, að unt sé að lýsa honum.

Að sínu leyti eins finst mér hugsanlegt að skýra missagnirnar um lífið í öðrum heimi að einhverju leyti með mismunandi reynslu framliðinna manna. Það er ástæða til að ætla, að sá heimur, sem við förum inn í við andlátið, sé afar-margbreytilegur. Ef umhverfi hvers einstaks manns myndast þar að einhverju leyti, ef til vill að mestu leyti, af ástandi hans sjálfs, eins og nokkur ástæða er til að ætla, þá er það skiljanlegt, að sá heimur sé óendanlega miklu margbreyttari en þessi heimur. En eins og



þið vitið, er frá nokkuð misjöfnu að skýra um þennan heim. Íslendingurinn mundi, til dæmis að taka, geta skýrt frá ísalögum og blindhríðum, sem menn verða úti í. Ómentaður svertingi úr brunabeltinu kynni að fullyrða, að það séu ljótu lygarnar, sem sagt sé, að þessi Íslendingur hafi verið að fara með. Hvernig ættu menn að ganga ofan á vatni? Hver ætti að geta lagt þessa hellu ofan á vatnið, sem Íslendingurinn sé að tala um? Þessi hvítu korn, sem hann segir að komi úr loftinu og geti orðið mönnum að bana, eru engin til. Og auðvitað er ekkert Ísland til. Og líklegast er það alt lygi, að þessi Íslendingur hafi nokkurn tíma sagt þetta og nokkurn tíma verið til. Í þessa átt mundi svertinginn tala.

**Örðugleikarnir á miðla-sambandinu.**

En hvað sem öllum slíkum skýringum líður, sem eru að miklu eða litlu leyti tilgátur, þá á e i n skýringin áreiðanlega við marga agnúana, sem okkur þykja vera á árangrinum af rannsókn dularfullra fyrirbrigða. Sú skýring er örðugleikarnir, sem eru á miðla-sambandinu.

Einn af þeim mönnum, sem hafa mesta þekking á sumum tegundum dularfullra fyrirbrigða, prófessor Hyslop, hefir ekki alls fyrir löngu gefið út ritgjörð um það, hvert sé hlutverk vísindamannanna nú orðið í þessu rannsóknarmáli. Það sé ekki það að sanna, að dularfull fyrirbrigði gerist. Það sé margsannað. Ekki heldur það að sanna, hvort eitthvað af fyrirbrigðunum stafi frá framliðnum mönnum, eða ekkert þeirra stafi frá þeim. Það sé alsannað, að sumt af fyrirbrigðunum stafi þaðan. Það sé ekki vísindamanna verk að sanna það, sem sé margsannað. Um slík efni sé eingöngu að tefla um það, að

flytja þekkinguna út til almennings. Rannsóknarverkið, sem nú kalli brýnast að, sé það að komast eftir, í hverju þeir séu í raun og veru fólgnir, þeir óhemju-örðugleikar, sem alt af reynast á miðla-sambandinu.

Fáfróðir menn í þessum efnum halda, að annaðhvort sé þetta miðla-samband við framliðna menn ekkert annað en hugarburður, eða að það sé einstaklega einfalt mál. Annaðhvort séu þetta ekki framliðnir menn, eða þeir geti að minsta kosti hagað sér eins skynsamlega og við, jarðneskir menn. En það er engum vafa bundið, að málið er ákaflega flókið. Menn v i t a, að það er flókið. En menn vita ekki, h v e flókið það kann að vera, né hvort unt kann að vera að greiða eitthvað úr flækjunum.

**Bent á nokkura örðugleika.**

Eg verð til skýringar að láta mér nægja að benda á nokkura af örðugleikunum, sem menn vita um, að eru því samfara, að framliðnir menn geri vart við sig hjá miðlum í því svefnástandi þeirra, sem á útlendum tungum er nefnt „trance“ og við höfum á síðari árum nefnt sambandsástand.

1. Þessi miðla-svefn getur verið mismunandi fastur. Menn hafa athugað þrjú stig á þessari svefnfestu hjá fræga, ameríska miðlinum frú Piper. Á 1. stiginu virðist hún hafa einhverja draumkenda meðvitund um þá jarðneska menn, sem hjá henni eru, og um framliðna menn. Virðist eins og vita inn í tvo heima. Á 2. stiginu virðist persónuleikur sjálfrar hennar hafa sams konar afstöðu til líkama hennar, eins og þeir framliðnir menn, sem eru að reyna að gera vart við sig. Hún virðist þá geta farið að nota líkama sinn líkt og framliðnu mennirnir gera, og meðvitund hennar stendur þá í miklu nánara sambandi

við annan heim en við jarðneskan heim. Á 3. stiginu er öll hennar meðvitund horfin; hún virðist alls ekkert hafa við líkama sinn að gera, eins og sálin sé tekin burt. Það virðist vera afar-mikilsvert, óhjákvæmilegt til þess að ósýnilegu gestirnir geti notið sín, að „trancinn“ komist á 3. stigið. En hann kemst áreiðanlega oft ekki lengra en á 1. stigið, aldrei lengra hjá sumum miðlum, eftir því sem næst verður komist. Og þá verður árangurinn sama sem enginn og alt fult af vitleysum.

2. Hugsanir miðilsins geta blandast saman við hugsanir ósýnilegu gestanna, eða komið í staðinn fyrir þær.

3. Hugsanir annara jarðneskra manna kunna að geta gert sömu truflun.

4. Sá framliðinn maður, sem vill gera vart við sig, kann að vera óhæfur til þess og notar annan, sem fer rangt með skeytið.

5. Margir framliðnir menn kunna að vera að reyna að koma hugsunum sínum inn í heila miðilsins samtímis, án þess að vita hver af öðrum, og svo verður vitleysa úr öllu saman.

6. Framliðni maðurinn kann að komast í það ástand í sambandinu, að hann verði líkastur sofandi manni eða hálfbrjáluðum. Það virðist afar-algengt, hvernig sem á því stendur, og líklegast eru þeir framliðnir menn tiltölulega fáir, sem eru vel hæfir til þess að sanna jarðneskum mönnum, hverjir þeir eru. Og ávalt ákaflega mikill vandi að eiga að nota vitundarfæri annars manns.

Mér dettur í hug í þessu sambandi, þegar eg minnist á örðugleikana við að nota vitundarfæri annars manns, samtal, sem gerðist í Rvík fyrir nokkrum árum. Eitt

skáldið okkar sagði við kunningja sinn í gamni og alvöru: „Þegar eg verð nú farinn og kem aftur til ykkar, þá fer eg sjálfsagt að reyna að yrkja gegnum einhvern miðilinn. En í guðs bænum trúið þið því ekki, að það sé e g, ef þessi, sem kemur, yrkir v e r en eg. Heldur ætti eg þó að geta það betur, þegar eg er kominn inn í annað, æðra líf.“—„Jæja,“ sagði vinur hans, „finst þér líklegt, að þér veiti léttara að yrkja með öðrum heila en heila sjálfs þín?“ — Skáldið setti hljóðan ofurlitla stund. Þá kannaðist hann við það, að sér hefði ekki dottið í hug að líta á málið frá þeirri hlið.

Þetta eru nokkurir af þeim örðugleikum, sem mönnum er kunnugt um í sambandi við „trancinn“ einan. Það er ekkert undarlegt, þó að margar séu vitleysurnar í þeim marghéttuðu tilraunum, sem gerðar eru um heiminn — að sjálfsögðu oft og tíðum af vanþekkingu beggja megin tjaldsins. Það er áreiðanlega örðugt verk fyrir framliðna vini okkar að gera okkur vart við sig. En það er líka áreiðanlegt, að þeim hefir tekist það.

* * *

**Athugasemd, sem snertir sjálfan mig.**

Hér verð eg að láta staðar numið um mótbárurnar. Þetta er orðið of langt mál. Samt langar mig til að biðja ykkur að vera góð við mig, þó að eg komi með eina athugasemd enn, athugasemd, sem snertir sjálfan mig. Sumir vinir mínir hafa furðað sig á því, að eg skuli hafa verið svo ónýtur að breiða út þekkinguna á rannsókn dularfullra fyrirbrigða, þar sem það mál sé þó

svo mikilsvert, og þar sem eg hafi kynt mér það töluvert.

Eg hefi ekkert mér til málsbóta, nema ef það skyldi vera það, sem fæstum mun finnast neinar málsbætur, að eg er fráleitt gæddur postula-eðlinu, og hugurinn hefir oft verið hlaðinn öðrum efnum.

En svo eru aðrir vinir mínir — og eg er nú hræddur um, að þeir hafi verið fleiri um tíma — sem hafa furðað sig á því, að eg skuli nokkuð vera að rekast í þessu máli. Hvað sem mínum hugmyndum líði, þá sé allur þorri manna ekkert um þetta að hugsa, og í hans augum sé þessi rekistefna hlægileg. Hvers vegna geti eg þá ekki látið menn vera í friði? Og ef vinir mínir verða vanstiltir, þá bregða þeir mér um „áhangendagræðgi“.

**Mennirnir, sem koma mér ekki við.**

Um þetta hefi eg þetta að segja í sem styztu máli: Eg tel það víst, að prófessor Schiller hafi rétt að mæla — það sé mikill meiri hluti manna, sem á hverjum einstökum tíma láta sig eilífðarmálin litlu eða engu skifta. En þeir menn, sem svo líta á, koma mér ekkert við, hvort sem þeir eru margir eða fáir.

**Mennirnir, sem koma mér við.**

Mér koma h i n i r við, þeir, sem er eins farið og mér hefir verið farið — ganga með eilífðarþrána í sál sinni fram með ströndum dauðans, en eru þess ekki fullvísir, að þeir sjái nein fjöll lífsins úti í sjóndeildarhringnum hinumegin. Þeir eiga einhvern rétt á sér, þó að þeir séu í minni hluta, einhverja heimting á að þorsta sálna þeirra sé svalað, ef þess er nokkur kostur.

Eg ætla ekki að fara að gera lítið úr þeirri svölun,

sem kirkjan, með sína gamla og nýja guðfræði, kann að veita sálum mannanna. En hitt v e i t eg, að þeir menn eru til, sem þjást af þorstanum, en finna enga svölun hjá kirkjunni, meðan hún, eða að svo miklu leyti sem hún, sinnir ekkert þeim sönnunum, sem vísindaleg rannsókn nútímans hefir lagt til eilífðarmálanna. Og þeir menn eiga einhvern rétt á sér.

**Tvenns konar sálarstríð.**

Eg hefi þekt móður, alþýðukonu, sem tregaði svo einkasoninn sinn, eina yndið hennar og eftirlætið, sem hún hafði mist í sjóinn, að hún sá aldrei glaðan dag — þangað til það ljós rann upp í sál hennar, að það væri s a n n a ð, að drengurinn hennar væri alveg eins lifandi og hann hefði nokkuru sinni áður verið. Eg hefi aldrei þekt glaðlegri manneskju en hún hefir verið alt af síðan.

Eg hefi þekt hámentaðan mann, sem alla æfi hafði verið trúhneigður maður og kirkjunnar barn. Einu sinni hrynur allur hans guðfræðikastali í hans huga, skörðin verða stærri og fleiri en svo, að kastalinn fái hangið uppi. Og hann verður dapur eins og maður, sem beðið hefir ósigur í stríði sálar sinnar. Hann fær djúpsetta þekking á árangrinum af rannsókn dularfullra fyrirbrigða. Og hvað verður þá? Eg hefi ekki nógu mikið hugsjónaafl til þess að hugsa mér þær andlegar fallbyssur, sem skjóti niður kastalann, þar sem fögnuður hans út af tilverunni hefst við og trú hans og traust á föður sínum á himnum.

Eg tek þessar tvær manneskjur að eins til dæmis. Öðrumegin er einföld tilfinning saknandi og sorgbitins mannshjartans. Hinumegin er sálarstríð mentaða mannsins, sem

finst himnar réttlætisins og kærleikans vera að hrynja, eða öllu heldur hafa aldrei verið annað en hugarburður.

Sannarlega eiga báðar þessar tegundir sálarstríðs rétt á að vera teknar til greina.

**Eilífðarmálin knýja á dyrnar.**

Og þó að mennirnir með áhugann á eilífðarmálunum séu í minni hluta á hverjum einstökum tíma, þó að veraldarvastrið og efnishyggjan haldi þeim áhuga í fasta svefni að öllum jafnaði, þá er það nú svona, að þær stundir koma fyrir flesta okkar einhvern tíma á æfinni, að eilífðarmálin knýja á dyrnar og sál okkar situr inni fyrir í sorg og angist út af því að geta ekki lokið upp. Eg held, að þrátt fyrir alla léttúðina og veraldarhyggjuna sé sú þjáning samanlögð svo mikil, að það sé vansæmd siðuðum heimi, hvað lítið hefir verið gert af þekkingu og viti til þess að lina þær þrautir.

Þegar sú hugsun kemur — hún bælist oft niður af öðrum hugsunum, en þegar hún kveður sér hljóðs í sál minni — þá finst mér það synd og skömm, að segja ekki eitthvað af því, sem eg veit um þetta mál.

---

Mig langar til að verja þeim mínútum, sem eg get gert mér von um, að þið endist til að hlusta á mig þessi tvö kvöld, til þess að segja ykkur frá síðustu bókinni eftir Sir Oliver Lodge, rektor háskólans í Birmingham á Englandi.

**Frægur eðlisfræðingur.**

Eg geri ráð fyrir að mörg ykkar kannist eitthvað við þann mann. Hans hefir nokkurum sinnum verið minst hér í Reykjavík, einkum í sambandi við rannsókn dularfullra fyrirbrigða. Samt finn eg, að það ætti vel við og væri hentugt að skýra ykkur nokkuð frá almennri vísinda-starfsemi hans. Það mundi að minsta kosti auka traust ykkar á höfundi þeirrar bókar, sem eg ætla nú að segja ykkur frá. En eg sé, að eg muni ekki hafa tíma til þess, nema eg láti annað sitja á hakanum, sem mér er ant um að geta sagt. Svo að eg verð að láta mér nægja að benda ykkur á það, að hann er að minsta kosti einn af frægustu núlifandi eðlisfræðingum veraldarinnar, ef hann er ekki frægastur, og að náttúrufræðingurinn dr. Harker lét sér þau orð um munn fara nýlega, eins og próf. Har. Níelsson hefir getið um í fyrirlestri sínum „Kirkjan og ódauðleikasannanirnar“, „að mættu brezkir vísindamenn skipa kardínálasamkundu, t. d. af stjórnarnefndum ‚Konunglega vísindafélagsins‘ og

‚Brezka vísindafélagsins‘, er þeir gengju til sinnar páfakosningar, þá mundi enginn fá fleiri atkvæði en Sir Oliver Lodge.“

**Ekki spíritisti.** En á afstöðu hans til rannsóknar dularfullra fyrirbrigða verð eg að minnast nokkurum orðum.

Fyrir nokkurum árum átti eg tal í London við enskan spíritista, sem sýndi mér alveg einstaka góðvild, bráðókunnugum manni. Hann talaði dálítið óþolinmóðlega um Sir Oliver Lodge í sambandi við rannsóknarmálið. — „Hvers vegna talið þér svona?“ spurði eg. „Sir Oliver er þó spíritisti.“ — Eg lagði þann skilning í orðið „spíritisti“, að það væri maður, sem væri sannfærður um framhald mannlífsins eftir líkamlegan dauða, og jafnframt sannfærður um það, fyrir rannsóknir sínar eða annara, að unt væri að koma á vitundarsambandi milli jarðneskra og framliðinna manna. — En þessi Lundúna-vinur minn neitaði því fastlega, sem eg hafði sagt um Sir Oliver Lodge. — „Hann er ekki spíritisti,“ sagði hann. „Hann er sálarlífsrannsóknarmaður“ („He is a Psychical-Research-man“).

**Lodge og spíritistar.** Þetta var líka að minsta kosti að því leyti rétt hjá Lundúnamanninum, að Sir Oliver Lodge telur sig ekki sjálfur spíritista. Það má sjá á þessari síðustu bók hans. Ekki svo að skilja, að hann amist við spíritistum. Það er nú eitthvað annað. Hann kannast við það, að þeir hafi orðið fyrstir til þess að veita viðtöku þeim sannleika, sem hann er að boða, og telur svo óumræðilega mikilsverðan. Hann líkir þeim við fyrstu kristnu mennina, og minnir í því sambandi á ummæli Páls postula í 1. kap. í fyrra Korintubrjefinu:

„Lítið, bræður, til köllunar yðar: Þér eruð ekki margir vitrir að manna dómi, ekki margir máttugir, ekki margir stórættaðir; heldur hefir guð útvalið það, sem heimurinn telur heimsku, til þess að gjöra hinum vitru kinnroða, og guð hefir útvalið það, sem heimurinn telur veikleika, til þess að gjöra hinum voldugu kinnroða“.

Afarörðugt mundi það nú verða að gera greinarmun á lífsskoðun Sir Olivers Lodge og ýmissa gætinna og hámentaðra manna, sem telja sig spíritista. En hitt er bersýnilegt, að honum hefir veitt örðugar að sannfærast um samband við framliðna menn, en öllum þorra þeirra manna, sem nefndir eru spíritistar, og að allar hans efasemdir og þær vísindamensku-skýringar, sem hann hefir reynt að beita, hafa sett annan blæ á hugsanalíf hans en þann, sem er á hugsanalífi langflestra spíritistanna.

**Sálarrannsóknafélagið brezka.**

Sir Oliver Lodge er einn af aðalleiðtogum Sálarrannsóknafélagsins brezka. Það markar afstöðu hans til rannsóknar dularfullra fyrirbrigða. Félagið hefir, andspænis almenningi, mjög sneitt hjá líkamlegu fyrirbrigðunum, svo sem manngerfingum, lyftingum, flutningum, svo nefndum andaljósmyndum o. s. frv. Auðvitað hafa sumir helztu mennirnir í félaginu fengist nokkuð við að athuga þau fyrirbrigði. En þeir hafa viljað sem minst um þau tala, að svo komnu — víst aðallega fyrir þá sök, að þeir hafa ekki treyst sér til að koma þeim inn í kerfi vísindalegrar þekkingar og þeim hefir verið óljúft að tala um það við almenning, sem þeir hafa ekkert getað skýrt. Þess vegna hafa þeir aðallega beint áhuga sínum að öðrum tegundundum fyrirbrigðanna, svipa-sýnum og þeim dularfullu

efnum, sem koma fram í svefni og dáleiðslu, „trance“ og ósjálfráðri skrift.

**Fjarhrifin.** Þeir líta svo á, sem fjarhrif (telepatía) milli jarðneskra manna sé sönnuð, og telepatía er, eins og þið sjálfsagt vitið, það, að áhrif berast úr einum hug í annan, án þess að fara gegn um skilningarvitin. Telepatía er í raun og veru sá grundvöllur, sem þeir reisa kenningar sínar á. Þeir kannast við það, að úr því að það sé sannað, að áhrif geti borist úr einni sál í aðra eftir öðrum leiðum en skilningarvitunum, þá sé það ekki lengur neitt fráleitt eða óhugsandi, að áhrif geti borist frá framliðnum mönnum að sálum jarðneskra manna, ef framliðnir menn séu á annað borð lifandi. Það sé að minsta kosti réttmætt rannsóknarefni. Geti nú framliðnir menn fært einhver veruleg rök að því, að það séu þ e i r, sem eru að gera vart við sig, þá sé ekki lengur neitt fáránlegt né óvísindalegt við það að taka þau rök til alvarlegrar íhugunar — og láta þau sannfæra sig, ef þau reynist nógu veigamikil.

**Nýtt vandamál.** En upp af þessum telepatíu-grundvelli reis hjá þeim nýtt vandamál. Rannsóknarmennirnir komust brátt að raun um það, að í þeim skeytum, sem tjáðu sig vera frá öðrum heimi, kom mikið fram af vitneskju, sem miðlarnir gátu ekki hafa fengið með venjulegum hætti. Einkum voru það endurminningar framliðinna manna, er miðlarnir höfðu enga hugmynd um að hefðu verið til. Vitsmunaöflin, sem tjáðu sig vera framliðna menn, komu, til dæmis að taka, með lítilfjörlega viðburði, sem ekki höfðu farið öðrum á milli en þessum framliðnu mönnum og einhverjum nánustu

ættingjum þeirra og vinum. Nú var vafamálið þetta: Gat ekki þessi vitneskja verið fjarhrif frá jarðneskum mönnum? Gat ekki undirvitund miðilsins einhvern veginn sogað í sig þessa vitneskju úr hugum þeirra jarðneskra manna, sem vissu um þessa viðburði? Væru þessir jarðnesku menn viðstaddir tilraunirnar, var, til bráðabirgða, gengið að því vísu, að vitneskjan væri fengin frá þeim. Væru mennirnir langt í burtu, ef til vill í öðrum löndum, og hefðu enga hugmynd um tilraunirnar, sáu þessir rannsóknamenn, að málið fór óneitanlega að vandast og verða nokkuð flókið. Var það líklegt, að undirvitund miðilsins gæti á svipstundu fundið þann jarðneska mann, sem bar í huganum þessa lítilfjörlegu vitneskju, hvar sem sá maður var í heiminum, og þó að miðillinn hefði aldrei heyrt hans getið, — og sogið úr honum vitneskjuna? Nei. Enginn gat fullyrt að það væri líklegt. En samt voru þeir margir, leiðtogarnir í Sálarrannsóknafélaginu brezka, sem töldu þá skýringu líklegri, en að framliðnir menn væru að gera vart við sig. Svo örðugt áttu þeir með að þýðast þá hugsun, að mennirnir væru í raun og veru að komast í samband við annan heim.

**Málið enn flóknara.**

Og málið er samt enn flóknara en þetta. Það hefir þrásinnis komið fyrir, að vitneskja hefir komið fram í þessum skeytum, sem ekki hefir verið á vitorði nokkurs jarðnesks manns, en hefir eftir á reynst vera rétt. Hvaðan átti undirvitund miðlanna að fá þá vitneskju? Þeirri vandaspurningu svöruðu sumir vísindamennirnir með einhverri þeirri fráleitustu og ólíklegustu tilgátu, sem komið hefir fram í þessu máli — og hafa þó margar kenningarnar

verið fráleitar og ótrúlegar. Þeir gerðu ráð fyrir, að allar endurminningar mannanna geymdust einhverstaðar utan við þá, eins og í einhverri þró, og úr þessari þró gæti undirvitundin ausið. Hvernig stóð þá á því, að aldrei var úr henni ausið, nema þegar framliðnir menn sögðust vera að gera vart við sig? Þeirri spurningu var aldrei svarað.

**Skýrslan frá 1890.**

Meðal þeirra manna, sem lengi hölluðust fremur að tilgátunni um fjarhrif frá jarðneskum mönnum, var Sir Oliver Lodge. En hann hefir æfinlega verið gætinn og æfinlega sanngjarn. Í skýrslu, sem hann birti 1890 um tilraunir sínar með einn af heimsins frægustu miðlum, frú Piper frá Boston, sem nú á heima í Greenfield í New Hampshire, tekur hann það fram, að aldrei hafi sannast neitt lík fjarhrif milli jarðneskra manna, eins og hér væri um að tefla, ef þessi fyrirbrigði stöfuðu frá þeim, og að þangað til slíkar sannanir fáist, verði menn að verða gætnir í því, að fullyrða nokkuð í þá átt. Honum þykir ekki sú skýring fullnægjandi; en að hinu leytinu þorir hann ekki að aðhyllast þá skýringu, að skeytin væru frá framliðnum mönnum.

**Afreksverk framliðinna manna.**

Hugsið ykkur að svo hafi nú samt verið, — eins og líka Sir Oliver Lodge er sannfærður um n ú. Hugsið ykkur að framliðnir menn hafi verið að reyna að sanna sig, og að þeim hafi verið sérstakt kappsmál að sannfæra vísindamennina, af því að þeir vissu, að með öðru móti kæmu þeir sannfæringunni aldrei inn í allan þorra manna. Þeir koma ýmsum stórfeldum áhrifum frá sér inn í þennan heim. Þar af er það einna bezt fallið til að vekja athygli,

að þeir sýna sig á tilraunafundum í holdlegum líkömum, sem hverfa aftur á svipstundu, og að þeir láta taka af sér ljósmyndir, þó að þeir séu ósýnilegir óskygnum, mannlegum augum. Við getum hugsað okkur, að þeim muni hafa fundist þeir standa sig vel, þegar þeir höfðu komið öðru eins í verk. En fæstir vísindamenn fást til þess að sinna slíkum býsnum neitt. Og þeir fáu vísindamenn, sem gera það, verða ekki fyrir öðru en annaðhvort ofsóknum samherja sinna í hinni almennu þekkingarleit vísindanna, eða heimskulegum rengingum — og það alveg eins þó að þeir gangi frá athugunum sínum af hinni snildarlegustu vandvirkni, eins og t. d. Sir William Crookes gerði, þegar hann skýrði frá fyrirbrigðunum, sem gerðust hjá Florence Cook og D. D. Home. Svo að þessa leiðina gátu framliðnir menn ekki komist með vísindamennina.

Þeir reyndu aðra leið, þá leiðina, sem eg hefi sérstaklega minst á hér á undan. Þeir sönnuðu sig með endurminningum úr sínu jarðneska lífi. Og eg hefi sagt ykkur hvernig það tókst. Þeir voru gerðir að undirvitund og telepatíu.

**Víxlskeytin.** Vandamálið, sem fyrir framliðnum mönnum lá, var auðsjáanlega þetta: að kveða niður telepatíu-kenningar vísindamannanna. Ekki þá kenningu, að fjarhrif gerist í raun og veru milli jarðneskra manna. Það er ómótmælanlegt. Heldur hitt, að allar þær sannanir, sem þeir koma með um tilveru sína eftir andlátið, séu að eins fjarhrif frá jarðneskum mönnum. Mörgum finst, sem það ráð, er þeir þá tóku, sé eitthvert gáfulegasta snildarverkið, sem menn vita til, að þeir hafi komið í framkvæmd hér á jörðunni.

Þeir fundu upp hin svo nefnda víxlskeyti (cross-correspondences). Svo er það nefnt, þegar frá sama sendanda — til hægðarauka segjum við þá: frá sama framliðna manni — koma hér um bil samtímis skeyti um sama efni hjá tveimur eða fleiri miðlum.

Eins og þið sjáið, er það ekki lítið merkilegt, þegar annað eins og þetta kemur fyrir. En þau víxlskeyti, sem sérstaklega voru ætlúð til að sannfæra vísindamennina, voru svo vandlega hugsuð, að þau geta ekki annað en vakið aðdáun manna — enda hafa líka gert það, svo um munar. Eg skal taka til dæmis, að miðill ritar ósjálfrátt vestur í Ameríku setningu, sem virðist vera vitleysa. Um sama leyti ritar miðill austur í Indlandi ósjálfrátt setningu, sem líka virðist vera vitleysa. Og enn ritar miðill á Englandi ósjálfrátt setningu, sem sömuleiðis virðist vera vitleysa. Það er þá fyrst, er allar þessar setningar eru bornar saman — af því að miðlarnir hafa gert samning við Sálarrannsóknafélagið brezka um að senda því alla sína ósjálfráðu skrift — það er þá fyrst, segi eg, að menn komast að raun um, að fult vit er í setningunum, og stundum bak við þær sérþekking á sérstökum fræðigreinum.

Þessum skeytum er ekki ætlað að sanna það sérstaklega, hver það sé, sem skeytið sendir. En hitt er þeim ætlað að sanna, að það sé sama vitsmunaveran, sem sendir þau öll, er saman eiga, og að hér geti ekki verið að tefla um nein fjarhrif frá jarðneskum mönnum. Enginn jarðneskur maður veit, né hefir nokkuru sinni vitað, að hverju verið er að stefna með hvert skeytið út af fyrir sig. Þar af leiðandi getur þetta ekki verið sótt í neinn

jarðneskan mann, né heldur í neitt endurminninga-safn eftir einn jarðneskan mann.

**Lodge sannfærist.** Þessi skeyti hafa líklegast áorkað meiru en nokkuð annað í þá átt að sannfæra leiðtogana í Sálarrannsóknafélaginu brezka um það, að skeyti séu komin frá öðrum heimi. Einn þeirra manna, sem hefir látið sannfærast, er Sir Oliver Lodge. Mér skilst svo, sem það sé þá fyrst, er þessi víxlskeyti fóru að koma, að allur efi hvarf úr huga hans. Hann hafði alt af verið vingjarnlegur í garð þeirra manna, sem höfðu látið sannfærast. En sannfæringin um, að þeir hefði rétt að mæla, var að minsta kosti ekki svo sterk, að hann gæti fylt flokk þeirra — fyr en nú fyrir fáum árum. Svo að þið sjáið, að það hefir ekki verið hlaupið að því að sannfæra hann. Hann er enginn auðtrúa einfeldningur, sem gleypir við því, sem að honum er rétt. Hann situr með allan þann efa í sál sinni, sem efnisvísindin hafa verið að magna um marga áratugi. Hann beitir öllum þeim mótbárum, sem honum finnast með nokkuru móti geta samþýðst heilbrigðri skynsemi. Hann rannsakar málið um 30 ár. Og hann lætur ekki sannfærast, fyr en hann þykist hafa gengið úr skugga um það, að öllum mótbárunum hafi fyrirbrigðin sjálf svarað að fullu. Og eftir allar þessar rannsóknir og öll þessi heilabrot finst honum — þessum spekingi, sem notið hefir trausts og aðdáunar alls hins mentaða heims áratugum saman, varið hefir allra sinni æfi til þess að fást við og meta vísindalegar sannanir, og aflað sér svo mikillar vísinda-þekkingar á alheiminum, að vafasamt er, hvort nokkur samtíðarmaður hans stendur honum í þeim

efnum framar — honum finst, segi eg, að hann hafi meiri rétt til þess að tala um málið og að ætlast til þess að orð sín séu tekin til greina, en þeir menn, sem aldrei hafa komið á nokkurn tilraunafund og ekkert þekkja málið af eigin reynd. Og það get eg ekki láð honum.

**Magn sannfæringar hans.**

Bókin, sem eg ætla nú að fara að segja ykkur frá, sýnir það bezt, hvað afdráttarlaus sannfæring mannsins nú er orðin um annan heim. „Eg er jafn-sannfærður um framhalds-tilveru eftir dauðann, eins og eg er um tilveruna hér,“ segir hann á einum stað í bókinni, eins og eg mun víkja nákvæmara að síðar. Hann gerir ráð fyrir því, að menn muni furða sig á því, að hann skuli g e t a verið svo sannfærður. Og hann gerir þess ljósa grein, hvernig það er einmitt — þó að kynlegt kunni að virðast í fljótu bragði — æfilöng vísinda-starfsemi hans, leikni hans í því að fást við þekkinguna á efnisheiminum, sem hefir gefið honum styrkleik sannfæringarinnar um annan heim. En ljósasti votturinn um magn sannfæringar hans er það, að hann skuli hafa lagt út í það að semja og gefa út þessa bók. Aðalefni hennar er þær sannanir, sem sonur hans, nýfallinn í ófriðnum, hefir fært honum fyrir því, að hann sé lifandi eftir dauðann. Hugsið ykkur, hvað óhemjulega óbifanleg vissan hlýtur að vera, þegar maður, sem allur siðaður heimur hefir dáðst að, leggur út í þá hættu að fá endurminninguna um nýlátinn son sinn og ástúðarskeyti hans handan úr eilífðinni saurguð með hæðnishlátrum vantrúarinnar og fáfræðinnar. Hugsið ykkur, að einhver af æðstu embættismönnunum okkar gerði þetta. Eg spái því helzt, að þið getið ekki hugsað

ykkur það. Og þó er sá mikli munur á, að þó að við hér heima gerum eitthvað varhugavert, þá kemur það varla fyrir, að nokkur fái vitneskju um það, aðrir en þeir fáu menn, sem búa á þessu landi. Þegar Sir Oliver Lodge tekur til máls á prenti, þá talar hann við allan hinn siðaða heim. Geri hann sig hlægilegan í prentuðu máli, þá er hlegið um allan heiminn. Sir Oliver Lodge leggur út í hættuna. Því að það er nú svona, að þegar ekki er lengur orðinn eftir neinn skuggi í sál mannsins af efasemdum um eilífðina, þá hættir hann að hirða um dóm mannanna, þá selur hann allar eigur sínar fyrir perluna dýru, þá er hann þess albúinn, að leggja alt í sölurnar, ef á þarf að halda, fyrir þá náð að eiga kost á að standa við sannleikann.

* * *

**Raymond Lodge.**

Sonur Sir Oliver Lodge, sá, er hann hefir ritað bók sína um og nefnt hana eftir, hét Raymond Lodge. Hann var fæddur 25. jan. 1889 og féll á Frakklandi 14. sept. 1915, 26 ára gamall. Hann var verkfræðingur, hafði lagt sérstaka stund á rafmagns- og vélafræði og var tekinn til starfa í vélaverksmiðju bræðra sinna, þegar ófriðurinn hófst. Hann hefir bersýnilega, eftir þeim skilríkjum, sem eru í bókinni, verið óvenjulega gáfaður, atorkusamur, glaðlyndur og skemtilegur maður, enda með afbrigðum vinsæll af þeim mönnum, sem kyntust honum, lágum jafnt og háum. Um trúmál virðist hann alls ekki hafa talað. Að minsta kosti vissu foreldrar hans ekki um trúarskoðanir hans, né heldur systkyni hans.

**Vasabiblían.** En eftir hann látinn fanst vasabiblía, sem hann hafði haft með sér á vígstöðvarnar. Hann hafði strikað við rúma 20 staði í bókinni og ritað skrá yfir strikuðu staðina á saurblaðið. Í þessum ritningarstöðum koma einkum fram þrjú atriði: 1) Traustið á guði, að hann leiði þjóð sína verndarhendi gegnum allar þrengingar. 2) Traustið á Jesú Krist. Meðal annars er þar allur 14. kap. í Jóhannesar guðspjalli, sem byrjar á orðunum: „Hjarta yðar skelfist ekki; trúið á guð og trúið á mig,“ og 33. v. í 16. kap. sama guðspjalls: „Þetta hefi eg talað til yðar, til þess að þér hafið frið í mér. Í heiminum hafið þér þrenging, en verið hughraustir, eg hefi sigrað heiminn.“ 3) Vonin um dýrlegt líf eftir burtförina af þessum heimi. Þessi biblía, sem hann lét eftir sig, virðist þá benda á að þessi 3 atriði hafi verið máttarviðirnir í huga hans.

**Raymond fer í herinn og fellur.** Þegar ófriðurinn mikli hófst, voru foreldrar hans í Ástralíu. Hann gekk í brezka herinn sem sjálfboðaliði, áður en þau komu aftur, í næsta mánuði eftir upphaf ófriðarins, var fyrst við heræfingar, var gerður að undirlautinant og fór til vígstöðvanna í marzmán. 1915. 14. sept. s. á. varð hann fyrir broti úr sprengikúlu í skotgröfunum, og andaðist af sárinu ½ klukkustund síðar.

**Ást fjölskyldunnar á Raymond.** Mestöll bókin ber vitni um það, beinlínis eða óbeinlínis, hve óendanlega vænt foreldrum hans og systkynum hafi þótt um hann. Af þeim mörgu ummælum, sem benda í þá átt, verð eg að láta mér nægja að lofa ykkur að heyra fáeinar línur, sem móðir hans ritaði á blað-

snepil í flýti, eftir að hún hafði verið á fyrsta sambandsfundinum, sem hann hafði gert vart við sig á eftir andlátið, og þegar hún var að því komin að fara á næsta fundinn. Hver setning er þrungin af viðkvæmni og trega. Línurnar eru svona:

„Til þess að lina kvölina og reyna að ná sambandi. Raymond, yndið mitt, nú ertu farinn úr okkar heimi, og ó, að kvölin mætti linast. Eg þarf að fá að vita, hvort þú ert ánægður, og að það sé í raun og veru þú sjálfur, sem er að tala við mig, og að þetta sé engin blekking.

„Engin bréf frá þér framar, elsku sonur minn, og eg hefi elskað þau svo mikið. Þau eru öll geymd; við ætlum að festa þau í nokkurs konar bók.

„Nú verðum við ekki samvistum fyr en eg hitti þig hinumegin. Eg hefi ekki verið eins mikið með þér og mig langaði til á þessari jörð, en mér er svo mikið yndi að hugsa um þær stuttu stundir, sem eg hefi fengið að njóta þín, einkum ferðirnar okkar til og frá Ítalíu. Eg hafði þig út af fyrir mig þá, og þú varst mér svo ástfólginn.

„Mig langar til að segja þér, góði, hvað við finnum til þess, að þú hefir gert skyldu þína með dýrlegum hætti, með sérstöku þráðbeinu kappi, aldrei látið neinn verða þess varan, að þú tækir neitt nærri þér, og alt af látið gamanið og hláturinn leika sér kringum þig, meðan þú varst að hughreysta aðra og hjálpa þeim. Þú veizt, hvað bræður þínir og systur finna mikið til missisins, og vesalings faðir þinn!“

* * *

**Tvö skeyti.** Áður en eg fer að segja ykkur frá þeim skeytum, sem komið hafa frá Raymond — það lítið, sem eg get af þeim sagt — verð eg að minnast á tvö skeyti, sem Sir Oliver Lodge fékk, áður en hann misti son sinn. Og til þess að mönnum skiljist síðara skeytið að fullu, verð eg að hafa ofurlítinn inngang að þeim.

Frú Piper, ameríski miðillinn, sem eg nefndi áðan, er nú að mestu hætt að halda fundi, en hefir samt samband enn við þær verur, sem hafa gert vart við sig hjá henni. Sá vísindamaðurinn, sem lengst og mest rannsakaði fyrirbrigðin hjá henni, hét dr. H o d g s o n, og er látinn fyrir nokkurum árum. Hann hefir mikið gert vart við sig hjá frú Piper eftir andlátið. Annar framliðinn maður, sem mikið hefir gert vart við sig þar, er M y e r s, sem talinn er einna fremstur sálarlífsrannsóknamaður heimsins í vísindamanna hóp, og var mjög vel lærður maður í grískum og rómverskum fræðum. Það var hann, sem talinn var að standa úr öðrum heimi fyrir víxlskeyta-tilraununum, er eg mintist á áðan. Hann var mikill vinur Sir Olivers Lodge. Enn verð eg að nefna ein hjón: Dr. Arthur Verrall og frú Verrall í Cambridge á Englandi; hann var læknir og er dáinn fyrir nokkuru; hún var sérstaklega lærð í forntungunum, grísku og latínu, fekst mikið við sálarlífsrannsóknirnar — mörg víxlskeyti skrifaði hún ósjálfrátt — var lifandi, þegar þetta gerðist, sem eg ætla nú að segja ykkur, en hefir andast síðan.

**Fyrra skeytið.** Þ. 5. ágúst 1915 kom eftirfarandi skeyti í ósjálfráðri vöku-skrift hjá frú Piper vestur í Ameríku:

„Já. Lodge, hafðu nú traust á öllu, sem er æðst og bezt. Hafið þið ekki öll verið leidd og um ykkur annast af djúpsærri speki? Geturðu neitað því? Það er fyrir trúmensku þína, að alt gengur vel og hefir gengið vel“.

Lodge tók ekkert mark á þessu skeyti; það var svo óákveðið, eins og þið finnið öll. En honum kom til hugar, að átt væri við það, að einhverjir örðugleikar væru í vændum, af því að verið var að brýna fyrir honum, að þau [hann skildi það svo, sem átt væri við sig og fjölskyldu sína] hefðu öll verið leidd og um þau annast af djúpsærri speki, og að alt h e f ð i gengið vel.

**Síðara skeytið.** En með sama póstinum fékk Lodge annað, kynlegra skeyti. Það var líka frá frú Piper, en það hafði hún ritað 8. ágúst í sambandsástandi (trance). Stúlka, sem heitir ungfrú Robbins, var ein viðstödd, auk miðilsins. Fyrst var ritað um mál, sem henni kom við, þá var snúið sér að alt öðru í skriftinni og þetta ritað:

„Nú Lodge, þó að við séum hér ekki eins og fyrrum, þ. e. a. s. ekki alveg, þá erum við hér nógu mikið til þess að taka á móti skeytum og senda þau.

„Myers segir, þú takir hlutverk skáldsins, og hann ætlar að verða eins og Faunus. F a u n u s.“

„Faunus? spyr ungfrú Robbins.

„Já. Myers. V e r n d a. Hann mun skilja.“

[Þessi „hann“ er sjálfsagt Lodge].

„Hvað segirðu,Lodge? Gott starf. Spurðu Verrall, hún mun líka skilja. Arthur segir það.“

Þessi „Arthur“ er vafalaust Dr. Arthur Verrall, sem eg nefndi áðan, og er að vísa til konunnar sinnar, hinnar

latínulærðu. En ungfrú Robbins botnaði ekkert í þessu og fram úr henni kemur spurningin:

„Áttu við Arthur Tennyson?“ (fræga enska skáldið).

Þá er skrifað:

„Nei. Myers veit það. Það gerir líka [eyða]. Þú ruglast (á við ungfrú Robbins), en Myers er viss um skáldið og Faunus.“

**Skýringin.** Lodge skilur ekkert í þessu skeyti; hann veit ekkert við hvaða skáld og við hvaða Faunus er átt. Hann sendir skeytið til frú Verrall, eins og til hafði verið vísað, og fær aftur þá skýringu, að í latínsku kvæði eftir rómverska skáldið Hóraz sé á það minst, að tré hafi verið að detta ofan á skáldið, og mundi hafa riðið honum að fullu, ef vinur hans, Faunus, hefði ekki dregið úr högginu.

„Myers segir, þú takir hlutverk skáldsins og hann ætlar að verða eins og Faunus,“ hafði staðið í skeytinu. Eftir á, að minsta kosti, virðist nokkuð bersýnilegt, við hvað er átt — að það sé það, að einhver sorg eða hætta vofi yfir Lodge, og Myers ætli að vernda hann.

Lodge fékk þessi skeyti í byrjun septembermánaðar 1915 í Skotlandi. Hann var þá kominn heim úr Ástralíuferðinni. En 14. sept. féll sonur hans, eins og eg hefi skýrt ykkur frá.

**Hefir Myers efnt loforðið?** Nú er þá næst að athuga, að hve miklu leyti Myers hefir staðið við þetta loforð sitt, hvort hann hefir nokkuð dregið úr högginu. Hann verndaði hann ekki með þeim hætti, að hann afstýrði falli sonar hans. En hefir hann gert það að nokkuru öðru leyti?

Eg ætla fyrst að geta þeirra fyrirbrigða, sem benda á það, að Myers hafi sérstaklega verið við það riðinn, sem á eftir fór.

Fyrstu fundir hjá frú Leonard.

Fyrsti sambandsfundurinn, sem nokkur úr fjölskyldu Lodge var á, eftir andlát Raymonds, var ekki haldinn í því skyni, að ná sambandi við Raymond — því síður með nokkurri hugmynd um, að Myers yrði þar að neinu getið. Hann var haldinn fyrir franska ekkju, sem var mjög harmþrungin, því að hún hafði mist tvo syni sína í ófriðnum sömu vikuna. Þessi franska ekkja var vinkona Lady Lodge, móður Raymonds; og Lady Lodge kom henni á tvo fundi hjá kvenmiðli, sem heitir frú Leonard, og fór sjálf með henni. Þær létu ekki nafna sinna getið við miðilinn. En báðir þessir synir frönsku konunnar gerðu vart við sig, nafn annars þeirra var nefnt rétt og hins nærri því rétt, og móðir þeirra sannfærðist um, að hún hefði náð sambandi við þá og fékk mikla huggun.

Á báðum þessum fundum gerði Raymond vart við sig, sagði til nafns síns og kom með fleiri merkileg atriði. En út í það fer eg ekki. Nú er eg að eins að tala um fyrirbrigðin að því leyti, sem þau benda á Myers. Á síðari fundinum var notað borð. Og með borðinu var þetta stafað, og sagt, að það kæmi frá Raymond:

„Segið föður mínum, að eg hafi hitt nokkura vini hans.“

Frú Lodge spyr: „Geturðu nefnt nokkurt nafn?“

„Já. Myers.“

Meira kom ekki það skiftið. En eg bendi ykkur á það,

að frú Leonard gat ekki með neinum almennum hætti hafa fengið nokkura hugmynd um, hvaða konur þarna voru — því síður, að Myers kæmi þeim neitt við.

Þetta gerðist 25. sept. 1915, 8 dögum eftir að Lodge-hjónin höfðu fengið fregn um andlát sonar síns.

**Lodge kemur til Lundúna.**

Á þessum fundum kom meira fram í sannana-áttina en eg get sagt ykkur frá. Svo virðist, sem Sir Oliver hafi nú ekki verið farið að standa á sama. Að minsta kosti fór hann til Lundúna tveim dögum síðar og fékk fund hjá frú Leonard. Hann sagði ekki til þess, hver hann væri. Honum var sagt, að veran úr öðrum heimi, sem talaði gegnum frú Leonard, þegar frúin væri komin í sambandsástand, væri ung stúlka, er nefndi sig „Fedu". Fundurinn var afar-merkilegur. En eg vel það úr honum, sem sérstaklega lýtur að Myers. Eftir að Feda hefir gefið nákvæma lýsingu af ungum manni, lýsingu, sem að öllu leyti gat átt við Raymond, segir hún:

„Honum finst þetta örðugt, segir hann, en hann hefir eignast svo marga góða vini, sem hjálpa honum. Hann hélt ekki, þegar hann vaknaði, að hann mundi verða svona ánægður, en nú er hann það, og hann segir, að fyrir sér liggi að verða ánægðari. Hann veit, að jafnskjótt og hann verður dálítið betur undirbúinn, fær hann töluvert að gera. „Mig furðar nærri því á því," segir hann, „ef eg verð fær um og hæfur til að gera það. Þeir segja mér, að eg verði það."

„Eg hefi fræðara og kennara með mér." Nú er hann að reyna að hlaða upp staf, sem á við einhvern. Hann sýnir

mér M... Menn halda, að eg segi, að eg sé ánægður, í því skyni, að gera þá ánægðari, en eg er það ekki. [Sama hugsun kemur fram hjá honum í einu af bréfum hans frá vígstöðvunum.] Eg hefi hitt vini hundruðum saman. Eg þekki þá ekki alla. Eg hefi hitt marga, sem segja mér, að dálítið seinna skuli þeir skýra það, hvers vegna þeir séu að hjálpa mér."

**Krossinn.** En nú kemur það merkilegasta, sem gerðist á fundinum í því sambandi, sem eg er nú að tala um, og jafnframt það fallegasta. Í fundarlok segir Feda:

„Hann er farinn, en Feda sér nokkuð, sem er að eins tákn; hún sér kross detta ofan á þig (Lodge); mjög dökkur, er á leiðinni ofan á þig; dökkur og þungur að sjá; og í fallinu snýst hann við, og hin hliðin sýnist öll björt og ljósið skín á þig allan. Það er einhver fölleitur blámi á því, en það er hvítt og albjart, þegar það kemur við þig. Já, þetta er það, sem Feda sér. Krossinn sýndist svartur, og þá snerist hann alt í einu við og varð yndislega bjartur. Með krossinum verður hægt að breiða út verulegt ljós. Hann verður til mikillar hjálpar.

„Vissirðu, að fylgdarandi þinn er svertingi?.... Hann segir, að sonur þinn sé ljóskrossinn; hann er ljóskrossinn, og hann verður ljós, sem hjálpar þér; hann ætlar líka að hjálpa þér til þess að sanna heiminum sannleikann. Þess vegna bjuggu þeir til svarta krosssinn, sem varð bjartur. Þú veizt [þ. e. þú þekkir sambandið við framliðna menn]; en svo eru aðrir, sem þurfa svo mikið á því að halda að fá að vita."

Eins og þið sjáið, er hugsunin hér náskyld skeytinu um skáldið og Faunus. Tréð, sem dettur ofan á hann, er hér orðið að krossi.

**Fyrsti Petersfundurinn.** Síðdegis sama daginn hafði Lady Lodge fund með mjög frægum miðli, sem heitir Peters. Hún sagði ekki til nafns síns, og miðillinn gat enga hugmynd haft um, hver hún væri. Þar var Raymond aftur lýst allgreinilega, og ýmislegt fleira kom fram því til sönnunar, að þarna væri hann. En eg bind mig, eins og áður, við það, sem bendir á Myers. Moonstone, aðalstjórnandinn hjá Peters, er að tala um Raymond. Alt í einu segir hann.

„Var hann ekki riðinn við efnafræði? Ef ekki, þá hefir einhver, sem hann átti mök við, verið það, því að eg sé alla hlutina í efnafræðings-vinnustofu.“

[Hér verður að geta þess, að Lodge segir, að í vinnustofu sinni hafi, upp á síðkastið, aðallega verið hlutir til efnafræði-rannsókna].

„Þessir efnafræði-hlutir flytja mig frá honum til manns í holdinu og í sambandi við hann er maður okkar megin (þ. e. í heimi framliðinna manna), maður, sem orti kvæði, nátengdur spíritismanum. Hann var mjög gáfaður. Hann fór líka yfir um utan Englands.“

[Myers var skáld, einn helztur rannsóknarmaður dularfullra fyrirbrigða og dó í Rómaborg.]

„Hann hefir sent skeyti alloft. Þessi maður, sem orti kvæði — eg sé stafinn M — hann er að hjálpa syni þínum til þess að koma skeytum.“

Nokkuru síðar þagnaði Moonstone og sagði svo:

„Það er svo mikilvægt, sem nú á að fara að segja, að eg

ætla að tala hægt, svo að þú getir skrifað hvert orð greinilega:

„Það er ekki að eins að veggurinn sé orðinn svo þunnur, að heyra megi til verkamannanna hinumegin, heldur er búið að búa til stórt gat á hann. Þetta skeyti er til mannsins, sem er riðinn við efnafræði-vinnustofuna.“

[Í bók, sem Lodge hefir ritað um árangurinn af sálarrannsóknunum, líkir hann þeim við gröft á göngum gegnum fjall, sem byrjað sé á beggja megin fjallsins, og segir, að veggurinn sé nú orðinn svo þunnur, að heyra megi höggin frá þeim hinumegin gegnum hann. Og þið athugið það, að Lodge er alls ekki viðstaddur, heldur kona hans, og að miðillinn getur enga hugmynd haft um, hver hún er. Svo að það er skiljanlegt, að Lodge hafi ekki staðið á sama um að fá slíkt skeyti.]

Moonstone hélt áfram:

„Drengurinn — eg kalla þá alla drengi, af því að eg var meira en hundrað ára, þegar eg lifði hér, og þeir eru allir drengir í mínum augum — hann segir, hann sé hér, en hann segir:

„Hingað til hefir þetta verið málefni höfuðsins, en nú, þegar eg er kominn yfir um, er það málefni hjartans. Og meira að segja —“

Nú stökk miðillinn upp af stólnum, smelti fingrunum, eins og í geðshræringu, og sagði með hárri raust:

„Guð minn góður! hvað faðir minn getur nú orðið djarfmæltur! miklu ákveðnari en hann hefir áður verið, af því að þetta kemur við hjörtun í okkur.“

**Annar Peters-fundur.** Næsta fyrirbrigðið, sem bendir til Myers, gerðist 29. okt. 1915 hjá Peters. Lodge var þá einn með miðlinum, og hafði enn ekki látið uppi við hann, hver hann væri.

Moonstone var að tala, hafði lýst Raymond og var að tala um hann. Þá komst hann svo að orði, sem nú skal greina:

„Það, hve þú hefir farið skynsamlega með málið í fjölskyldu þinni, hefir hjálpað honum til að koma aftur, eins og honum hefir tekist; og hefði hann ekki vitað það, sem þú hefir sagt honum, þá mundi honum hafa orðið miklu örðugra að koma aftur. Hann talar mjög gætilega. Hann er ungmenni, sem veit, hvað hann er að segja. Þekkir þú F. W. M.?“

Já, Lodge segist þekkja hann. Þykist vita, að átt sé við Frederic William Myers.

„Því að eg sé þessa þrjá stafi. Nú, á eftir þeim, þekkir þú ST? já, eg fæ ST, þá punkt, og þá P. Þetta er mér sýnt; eg sé þá í ljósinu; drengurinn yðar sýnir mér þetta.“

Lodge sagðist skilja þetta, þóttist vita, að þetta ætti við kvæði eftir Myers um Pál postula, sem heitir St. Paul.

„Jæja, hann segir við mig: ‚Hann hefir hjálpað mér svo mikið, meira en þú heldur. Það er að segja F. W. M.“

„Blessaður sé hann fyrir það,“ segir Lodge.

„Nei, drengurinn þinn hlær, honum gengur meira til; þú skalt ekki halda, að þetta hafi eingöngu verið í gustukaskyni; honum gengur meira til, og hann heldur, að með þreki þínu munir þú geta það, sem þig langar til að gera nú, ríða niður hártoganir heimskingjanna, og

láta félagið, félag i ð, segir hann, verða veröldinni að einhverju gagni. Getur þú skilið þetta?"

„Já, sagði Lodge. Hann vissi auðvitað, að átt var við Sálarrannsóknafélagið brezka, sem mestar rengingarnar hafði í frammi haft.

„Nú segir hann: ‚Hann hjálpaði mér, af því, að með mér getur hann látið þig rífa burt stíflurnar, sem menn hafa hlaðið upp. Seinna talarðu til þeirra. Það er þegar komið á dagskrána, og þú brýtur niður mótspyrnuna vegna mín.' Svo segir hann: ‚Í guðs bænum, faðir minn, gerðu það. Því að ef þú bara vissir og gætir séð það, sem eg sé: karla og konur hundruðum saman harmþrungin. Og ef þú gætir bara séð drengina okkar megin, lokaða úti, þá mundirðu beita öllu þínu afli við þetta verk. En þú getur gert það. Honum er mjög mikil alvara. Ó, og hann vill — Nei, eg verð að stöðva hann, eg verð að aftra honum, eg vil ekki láta hann fá vald á miðlinum. — Þú mátt ekki halda, að það sé af mannúðarleysi, en eg verð að vernda miðilinn minn; hann (R.) mundi ekki verða fær um að gera það, sem hann ætti að gera; miðillinn mundi hafa ilt af því; eg verð að vernda hann; geðshræringin mundi verða of mikil fyrir ykkur báða, svo að eg verð að aftra því, að hann nái valdi á honum.

„Hann skilur þetta, en hann vill láta mig segja þér þetta: —

„Tilfinningin við að fara yfir um, var áköf vonbrigði, honum hafði ekki komið dauðinn til hugar. Næsta tilfinningin var líka sorg. [Þögn].

„Á þessum tímum er skelin brotin utan af körlum og

konum — skel vanafestunnar, skel tómlætisins hefir verið mölbrotin, og allir eru farnir að hugsa, þó að sumir hugsi af eigingirni.

„Nú sný eg mér aftur að honum — hvað hann er þolinmóður. Eftir sorgina kom vonarglampi, af því að hann gerði sér þess grein, að hann gæti komið aftur til þín; og af því að amma hans kom til hans. Þá var komið með bróður hans til hans. Því næst, segir hann, með aðra menn. Myerse — Myerse, mér heyrist það því líkt — veiztu, hvað hann á við? — kom til hans, og þá vissi hann, að hann gæti komið aftur. Hann vissi það.“

„Nú vildi hann láta mig segja þér þetta: Það er fyrir dauða hans, sem ekki er nema einn af þúsundum, að mörg hundruð manna fá það, sem þeim verður að gagni.“

* * *

**Myers hefir efnt loforðið.**

Eg hefi nú sagt ykkur frá fyrirbrigðunum, sem sérstaklega lúta að Myers. Lodge tekur þau saman í eina heild í bókinni, eins og eg hefi nú gert. Hann gerir enn nákvæmari grein fyrir þeim í vísindariti, sem Sálarrannsóknafélagið brezka gefur út, og þar er sagt frá öðrum, sem ekki eru nefnd í þessari bók. Hann hefir talið þetta nægja í bók, sem ætluð er almenningi. Auðvitað hefi eg orðið að stytta frásögn hans. Við þennan kafla hnýtir hann þessum orðum:

„Eg vona að mönnum skiljist það, að framanritað ágrip af fundargjörðum hefir verið birt hér í því skyni að sýna, að ef vér hugsum oss, að viðburðirnir séu það,

sem þeir segjast vera, þá hefir Myers efnt Faunus-loforðið, og dregið úr högginu, með því að líta eftir syni mínum hinumegin og hjálpa honum.“

* * *

**Sannanir Raymonds.** Við komum nú að þeim sönnunum, sem Raymond hefir fært fjölskyldu sinni fyrir því, að hann sé lifandi — öðrum en þeim, sem beinlínis eða óbeinlínis eru fólgnar í skeytunum, sem benda til Myers. En nú verð eg að vera miklu fáorðari en eg vildi. Eg veit, að mér er það ókleift, að láta menn verða fyrir neitt svipuðum áhrifum af frásögn minni, eins og menn verða fyrir af sönnununum í bókinni. Eg get sagt ykkur frá einstökum sannana-fyrirbrigðum. En eg get ekki komið með sannana-mergðina, sem eru í bókinni; og h ú n skiftir svo miklu máli. Eg ætla að byrja á sögunni um ljósmyndina.

**Ljósmyndin.** Raymond féll, eins og eg hefi áður sagt, 14. sept. 1915. 27. s. m. var fyrst minst á ljósmynd af honum á sambandsfundi. Það var hjá Peters. Moonstone, stjórnandi Peters, hélt því þar fram, að Raymond segði, að til væru af sér 3 ljósmyndir. Á tveim þeirra væri hann einn, en á einni væri hann í hóp fleiri manna. Hann sagði, að Raymond væri ant um að láta þessa getið, og á einni myndinni væri hann með göngustaf.

Fjölskyldan átti auðvitað myndir af honum einum. En hún hafði enga vitneskju um mynd, þar sem hann væri í hóp annara manna. Lodge hafði fest sér í minni, að

Raymond væri ant um að láta þess getið, og grenslaðist eftir þessu, en varð einskis vísari — þangað til 29. nóvember, að bréf kom um það til Lady Lodge, að sonur hennar væri á mynd, sem tekin hefði verið af nokkurum liðsforingjum suður á Frakklandi í næsta mánuði áður en hann féll. Í bréfinu var boðið að senda frúnni myndina. Auðvitað þá frúin boðið með þakklæti. En myndin kom ekki fyr en 7. des.

Þennan biðtíma notaði Lodge til þess að forvitnast um, hvort Raymond gæti sagt nokkuð nákvæmara um myndina, áður en frekari vitneskja væri komin um hana. Hann var á sambandsfundi hjá frú Leonard 3. des. Stjórnandinn þar (úr öðrum heimi) er stúlkubarn, sem nefnir sig Fedu. Hún er það, sem talar.

Lodge minnir Raymond á það, að hann hafi minst á ljósmynd, þar sem hann sé með öðrum mönnum.

Feda svarar, að hann segist muna það; en að það hafi ekki verið hjá þessum miðli, ekki heldur við borð heima hjá Lodge [fjölskyldan er þá farin að gera tilraunir með borð miðilslaust, eins og eg mun segja frá seinna], en að það hafi verið í ókunnugu húsi, og miðilinn hafi hann ekki þekt.

„Man hann nokkuð um ljósmyndina?“ spyr Lodge.

„Hann heldur, að nokkurir aðrir hafi verið með honum, ekki einn eða tveir, heldur nokkurir.“

„Voru þeir vinir hans?“ spyr Lodge.

„Sumir þeirra, segir hann. Hann þekti þá ekki alla, ekki mjög vel. En hann þekti suma; hann hafði heyrt af sumum; þeir voru ekki allir vinir hans.“

„Man hann, hvernig hann leit út á myndinni?“ spyr Lodge.

„Nei, hann man ekki, hvernig hann leit út.“

„Nei, nei, eg á við það, hvort hann stóð,“ segir Lodge.

„Nei, hann virðist ekki halda það. Sumir voru upp-réttir í kringum hann; hann sat, en sumir uppréttir aftan við hann. Sumir stóðu og sumir sátu, heldur hann.“

„Voru það hermenn?“ spyr Lodge.

„Hann segir já — blandaður hópur. Einhver, sem kallaður er C, var á myndinni með honum; og einhver, sem kallaður er R — ekki hans eigið nafn [Raymond], heldur annar R. K, K, K, — hann er að segja eitthvað um K.

„Hann minnist líka á mann, sem byrjar á B (tautar eitthvað ógreinilega), en skrifaðu B.

„Honum finst þeir hafa verið nálægt 12. 12, segir hann, ef ekki fleiri. Feda heldur, að það hljóti að vera stór mynd.

„Nei, hann heldur það ekki. Hann segir, að þeir hafi verið í svo þéttum hnapp.“

„Var hann með staf?“ spyr Lodge.

„Hann man það ekki. Hann man það, að einhver vildi styðja sig við hann, en hann veit ekki með vissu, hvort nokkur styður sig við hann á myndinni. En einhver vildi styðja sig við hann, það man hann. Á síðasta manninum, sem hann mintist á, og var einhver B, ber nokkuð mikið á myndinni. Hún var ekki tekin í ljósmyndastofu.“

„Var hún tekin úti?“ spyr Lodge.

„Já, sama sem.“

Feda segir lágt: „Við hvað áttu með þessu: ‚Já, sama sem‘; það hlýtur að hafa verið annaðhvort úti eða ekki úti. Þú ætlar að segja: ‚Já‘, er það ekki?“

„Það getur hafa verið eitthvert skýli,“ segir Lodge.
„Það getur verið. Reyndu að sýna Fedu það.
„Bak við sýnir hann mér línur, sem liggja niður. Það er eins og svartur bakveggur, með línum bak við þá“ (Feda fer að draga lóðréttar línur í loftinu).

Myndin kom 7. des., eins og eg sagði. Þá sannast, að Raymond hefir lýst myndinni alveg rétt og furðu nákvæmlega. Upphaflega myndin hafði verið 5×7 þuml., en myndin, sem Lady Lodge fékk, hafði verið stækkuð nokkuð. Á myndinni voru 21 (Raymond hafði sagt 12, ef ekki fleiri), 5 sátu á jörðinni í fremstu röð, 7 sátu á stólum í 2. röð, 9 stóðu í öftustu röð. Raymond er með stafinn, sem getið var um hjá Peters. Línurnar lóðréttu á dökkum bakveggnum eru mjög greinilegar. Hópurinn var „blandaður“ að því leyti, að liðsforingjarnir voru úr ýmsum hersveitum. Raymond gat ekki hafa þekt nema nokkura þeirra; en sumir voru vinir hans. Lodge spurði ýmsa menn, á hverjum manninum þeim fyndist mest bera á myndinni. Venjulega svöruðu menn, að þeim fyndist einna mest bera á manni, sem hét Boast (B Raymonds). Nöfn liðsforingjanna byrjuðu á B, C og R, eins og hann hafði verið að tala um. Þar á móti ekkert þeirra á K, en eitt á því C-inu, sem borið er fram eins og K. Sumir sátu, aðrir stóðu fyrir aftan hann, eins og hann hafði sagt. Raymond er einn þeirra, sem sitja á jörðinni. Bakveggurinn er svartur, og mikið ber á línunum á honum. Myndin er tekin úti, fast við skýli eða hermannakofa.

En ef til vill er það eftirtektarverðara en alt annað, að Raymond hafði sagt, að einhver hefði viljað styðja sig við hann á myndinni. Maðurinn fyrir aftan hann hefir

lagt höndina fram á öxlina á honum. Það liggur við, að sjá megi á myndinni, að hann hafi kunnað dálítið illa við það, því að höfuðburðurinn er ekki alveg eðlilegur, höfuðið hallast ofurlítið frá handleggnum. Enginn maður styðst neitt við annan á myndinni, nema þessi eini.

Lodge gengur mjög vandlega frá sönnunum fyrir því, að alt hafi verið eins og hann segir um þessa mynd — að engin vitneskja hafi verið komin um myndina, áður en lýsing hennar kom af vörum miðilsins. Honum er mjög ant um, að ekkert verði véfengt í því efni, því að hann telur söguna um þessa ljósmynd afarmerkilega. Svo er líka litið á í öllum þeim enskum ritdómum, sem eg hefi séð um bókina. Í frásögn Raymonds hjá miðlinum fer það tvent saman, að réttu atriðin eru svo mörg, og að sama sem ekkert er rangt. Svo að hér er beinlínis óskynsamlegt að hugsa sér, að um nokkura tilviljun geti verið að ræða.

* * *

**Tveir samstæðir fundir.**

Næst ætla eg að minnast á tvo sambandsfundi, sem Lodge var á í London 3. marz 1916. Lodge telur þá mjög merkilega, seinni fundinn afbragð, en fyrri fundinn líka góðan, þegar þeir eru teknir í heild. Og eg trúi ekki öðru en að mörg ykkar verði honum sammála um það.

**Fundur með frú Clegg.**

Fyrri fundurinn var haldinn í húsi læknis, sem heitir Kennedy. Frú Kennedy var á fundinum. Hún er gædd nokkurum miðilshæfileikum, ritar ósjálfrátt, og hefir náð sambandi við framliðinn son sinn, Pál. Þessi Páll virðist hafa hjálpað

Raymond mikið til að gera vart við sig. Miðillinn, sem fenginn var á þennan fund, er roskin kona og heitir frú Clegg. Páll hefir áður talað gegnum hana. Hún var ekki látin vita, fyrir hvern fundurinn væri haldinn. Þegar hún kom inn í stofuna, settist hún á stól við arninn. Hún var naumast sezt, þegar hún segir:

„Ó, þessi stofa er full af fólki; ó, það er einhver áfjáður í að koma! Eg heyri einhvern segja: ‚Sir Oliver Lodge.' Þekkið þið nokkurn með því nafni?"

Lodge játaði því.

Frú Kennedy dró þá ofurlítið fyrir gluggana, og frú Clegg sagði: „Hver er Raymond, Raymond, Raymond? Hann stendur rétt hjá mér."

Hún var auðsjáanlega að komast í sambandsástand, svo að þau færðu stólinn hennar frá arninum og hún sofnaði. En um stund gerðist ekkert frekara, nema andlitið skældist og tilraunir gerðar til að tala; hún nuddaði á sér bakið, eins og hún kendi eitthvað til eða kynni eitthvað illa við sig, og saup nokkuð hveljur. Frú Kennedy kom til hennar og kraup hjá henni og reyndi að friða hana. Lodge sat kyr og beið eftir því, er kynni að gerast.

Eftir nokkura stund var eins og eitthvað færi að skýrast, og orð heyrðust: „Hvað eg er glaður; faðir minn; heilsaðu móður minni; hvað eg er glaður." Þetta var tekið upp aftur og aftur með ógreinilegri muldur-rödd. Og síðast: „Ástarkveðja til þeirra allra."

Þetta virtist ekkert annað en undirbúningur. Ekkert var sagt annað en sundurlaus ástúðarorð, ánægju-bendingar út af því að geta gert vart við sig, og vonbrigða-ummæli út af því að geta ekki gert það betur. En nokkur

bendingaleikur kom fram hjá miðlinum; hún faðmaði Lodge, strauk á honum handlegginn, klappaði á hnéð á honum, og stundum strauk hún honum um höfuðið, stundum vafði hún handleggjunum utan um hann, og gaf til kynna ákafa gleði, en að ókleift væri að tala greinilega. Þá breyttist bendingaleikurinn. Raymond virtist vera að hugsa um hluti í hermensku-útbúnaði sínum, eða hluti, sem hann hafði átt og reyndi að telja þá upp.

Meðan Raymond var að reyna að tala, og eins í þögnunum, var miðillinn að lemjast um á báðar hliðar, hélt sér í bríkina á stólnum, sem hún sat á, með höfuðið niðri á bríkinni, eða hún hékk fram, eða með höfuðið keyrt aftur á bak — var í ýmsum óþæginda-stellingum. Stundum var samt eins og hún gerði tilraun til þess að halda sér uppréttri. En mestan tímann var hún að lemjast um.

Þegar Raymond virtist hættur, fór alt að ganga betur, og þá fóru að koma sannanir. En þær koma ekki þessu máli við. En þó að fundurinn mætti virðast lélegur, að því er til Raymonds kom, reyndist hann samt merkilegur síðar um daginn.

**Fundur með frú Leonard.**

Þá hélt Lodge annan fund með frú Leonard. Auðvitað lét hann þess ekki getið, að hann hefði verið hjá öðrum miðli fyr um daginn. Feda er að tala um Raymond. Þá kemur þetta, sem ómótmælanlega sannar, að sá sem nefnir sig Raymond, veit, hvað gerst hefir hjá hinum miðlinum:

**Vitneskjan um fyrri fundinn.**

„Hann hefir verið með Palla („Paulie“) í dag, hjá móður Palla. [Þið munið, að frú Kennedy, lækniskonan, sem hafði fundinn hjá sér, var móðir Páls.] Hann segist hafa verið í húsi

Palla, en ekki með frú Kathie [Feda nefnir alt af frú Kennedy svo], með annari konu, miðli, heldur Feda. Hún var eldri en þessi kona; ný fyrir honum. Hann ætlaði að tala gegnum hana, en honum veitti það örðugt. Páll getur það vel, segir hann, en h o n u m þykir það örðugt. Hann segist hafa byrjað að komast í gegnum, og þá hafi honum fundist eins og hann verða ólíkur sjálfum sér. Það er óttalega kynlegt, þegar einhver reynir að tala gegnum annan. Hann segir, að hann hafi nærri því komist gegnum. Ó, hann segist ekki ætla að hætta; hann ætlar að reyna aftur. En það þykir honum leiðinlegt, að honum finst hann ekki líkur sjálfum sér. Þú skilur það, faðir minn, eg gæti verið einhver annar. Hann segir: Heldurðu að æfingin geri mann góðan í þessu efni?"

„Já, eg er viss um, að það verður auðveldara með æfingunni," segir Lodge.

„Ó, þá ætlar hann að gera það oft, ef hann heldur að gagn sé að því."

„Hverjir voru á fundinum?" spyr Lodge.

„Hann er ekki viss um það, af því að það er eins og hann hafi ekki getað notið sín; það var eins og hann væri í nokkurs konar mistri, í þoku. Hann fann, að hann var að ná í konuna, en hann vissi ekki alveg, hvar hann var. Hann hafði nokkuð til, til þess að segja, og hann byrjaði á að reyna að segja það, og það var eins og hann vissi ekki, hvar hann var." [Nú fer Feda að hafa orðrétt eftir Raymond.]

„Hvers vegna er hún að lemjast svona um, faðir minn? Ekki vil e g gera það; eg kunni fremur illa við það; eg vissi ekki, nema eg væri að gera hana veika, eða

eitthvað væri að. Palli sagði, að hún héldi, að þetta ætti að gera! En eg vildi óska, að hún gerði það ekki. Ef hún fengist til að vera róleg, þá mundi þetta verða miklu hægra. . . . .

„Feda heldur, að það, sem hann hafði búið sig undir að segja, hafi ekki verið annað en venjuleg skeyti. Hann hafði þau tilbúin í höfðinu á sér; hann hafði lært þau utan að — að eins fáein orð. Páll sagði honum, að það væri honum bezt, og svo (ó, þið skuluð ekki segja frú Kathie það [móður Palla], því að það er ekki kurteist) — og svo sagði Palli honum að spýta því út úr sér. Og þetta er það, sem hann reyndi að gera — bara að segja þau fáu orð, sem hann hafði lært utan að. Hann ætlaði bara að segja, hvað vænt honum þætti um að sjá þig. Hann langaði líka til að tala um móður sína, og að koma því að, ef hann gæti, að hann hefði talað við þig með Fedu sem millilið. Bara einföld efni eins og þetta. Hann varð að hugsa um einföld efni, af því að Palli hafði sagt honum, að ekki væri til neins að hugsa um neitt flókið. . . . . Hann sá ekki greinilega, en hann fann. Hann hafði töluverða hugmynd um, að þú værir þar og frú Kathie, en hann var ekki viss um það. Hann var allur svo ruglaður. Meira er ekki um þetta að segja.“

Þið skiljið, vona eg, hvað snildarlega Raymond hefir gert grein fyrir þessum fundi, sem h a n n hafði verið á, en miðillinn gat ekki haft neina hugmynd um. Auk þess er þetta afar-lærdómsríkt viðvíkjandi þeim örðugleikum, sem á sambandi eru. En út í það efni get eg ekki farið að þessu sinni.

„Mr. Jackson“.

Óneitanlega væri freistandi að segja ykkur af öllum þessum fundi 3. marz 1916. Hann var langur, og allur afar-merkilegur. Sönnununum rigndi niður, hverri á fætur annari. En til þess vinst ekki tími. Þó að eg segði ykkur viðburðina sjálfa, þá er gerðust á fundinum, væri ekki gagn að því. Skýringarnar, sem sýndu, hvað mikið vit er í því, sem sagt er, yrðu að vera langar. En eitt atriðið, sem fram kom á fundinum, get eg ekki stilt mig um að segja ykkur. Auk þess, hvað sönnunargildið er mikið, er það svo skringilegt fyrir þá sök, að veran, sem flytur skeytið, stúlkubarnið ósýnilega, Feda, botnar ekkert í því, sem hún er látin skila, og heldur, að það sé vitleysa. En það er ekki eingöngu skringilegt. Það er líka lærdómsríkt, eins og eg skal benda ykkur á á eftir.

Feda er að tala, eins og áður. Og Lodge leggur þessa spurningu fyrir Raymond:

„Manstu eftir nokkurum fugli í garðinum okkar?“

Feda segir lágt: „Já, sem hoppar um.“

„Nei, Feda, stórum fugli,“ segir Lodge.

„Auðvitað ekki spörfuglum, segir hann. Já, hann man það. (Feda lágt: Hoppaði hann, Raymond?) Nei, hann segir, að ekki hafi verið hægt að kalla það hopp.“

Lodge segir: „Jæja, við skulum snúa okkur að öðru nú. Eg vil ekki vera að þreyta hann neitt á fuglum. Spurðu hann, hvort hann muni eftir Mr. Jackson.“

„Já, farinn, farinn, segir hann. Hann var vanur að koma að dyrunum.“ (Feda lágt: „Veiztu, við hvað hann á? Allir geta komið að dyrunum!) Hann sá hann venju-

lega á hverjum degi, segir hann, hverjum degi. (Lágt: Hvað gerði hann, Raymond?)

„Hann segir, hann hafi ekkert gert. (Eg get ekki botnað í því, sem hann er að segja.) Hann er að hugsa sig um. Hann segir, að það sé Fedu að kenna.“

„Jæja,“ segir Lodge, „við skulum ekkert kæra okkur um það. Komdu með alt, sem hann segir, hvort sem nokkurt vit er í því eða ekki.“

„Hann segir, hann hafi dottið. Hann er viss um það. Hann meiddi sig.“

„Var hann vinur fjölskyldunnar?“ spyr Lodge.

„Nei. Nei, hann segir nei. Hann lætur Fedu finnast eins og einhver velti um koll, og nú lætur hann sér finnast eins og — (Feda heldur, að Raymond sé að gera að gamni sínu) — hann fór að hlæja. Við þektum hann vel, segir hann; og samt segir hann, að hann hafi ekki verið vinur fjölskyldunnar. Naumast leið svo nokkur dagur, að nafn hans væri ekki nefnt. Hann er að gera að gamni sínu, Feda er ekki í neinum vafa um það. Hann er að gera gys að Fedu.“

„Nei,“ segir Lodge, „segðu mér alt, sem hann segir.“

„Hann segir: setjið þið hann upp á stall. Nei, að þau hafi sett hann upp á stall. Hann var álitinn mjög dásamlegur. Og hann býst við, að hann mundi ekki hafa metið það mikils, þó að hann hefði vitað það; en hann vissi það ekki, segir hann. Er ekki viss um, að hann viti það nokkurn tíma, segir hann. Það er eins og það sé þvættingur, sem hann er að segja. Fedu finst hann blanda honum saman við fuglinn, af því að hann sagði eitthvað um fugl í miðjum klíðum — einmitt

þegar hann var að segja eitthvað um Mr. Jackson, og þá þagnaði hann og breytti því aftur. Rétt áður en hann nefndi stallinn, sagði hann ‚fallegur fugl‘, og þá þagnaði hann. Þegar hann var að reyna að svara öðru, ruglaði hann þeim saman, Mr. Jackson og fuglinum.“

„Það er ljóta vitleysan!“ sagði Lodge. „Hann er ef til vill orðinn þreyttur.“

„Hann vill ekki kannast við, að hann hafi blandað þessu saman! En hann gerði það! Því að hann sagði ‚fallegur fugl‘, og svo rauk hann í að tala um Mr. Jackson.“

**Hver var Mr. Jackson?**

Hver var nú þessi Mr. Jackson? Hann var páfugl, sem Lodge-hjónin áttu. Síðustu vikuna hafði hann dáið. Hann hafði verið giktveikur nokkurn tíma, og hætt við að velta um sjálfan sig, þegar hann var á gangi. Hann fanst dauður í garðinum einn morguninn, hálsbrotinn. Þegar Lodge hafði farið að heiman, ætlaði konan hans að fara að láta stoppa hann út, og hún hafði tréstall, sem hann átti að standa á. En Feda heldur alt af, eins og þið heyrðuð, að Mr. Jackson væri maður. Og Lodge segir, að það sé sérstaklega líkt Raymond að beita hana þeirri kankvísi að leiðrétta ekki þennan misskilning hennar og lofa henni að vaða í villunni.

**Skýringar.**

Áður en eg skilst að fullu við þetta merkilega atvik, langar mig til að benda ykkur á, hve afar-torvelt það er að leggja af nokkuru viti annan skilning í það en þann, að Lodge hafi í raun og veru fengið þessi ummæli um ‚Mr. Jackson‘ frá Raymond. Eina skýringin, sem eg get hugsað mér að yrði beitt, til þess

að komast undan spíritistisku skýringunni, er sú, að miðillinn hafði sogið vitneskjuna um ‚Mr. Jackson' út úr vitund Lodge. Um það er þetta að segja, að engin dæmi eru frá telepatíu-tilraunum til slíks hugsanaflutnings, svo að allar fullyrðingar í þá átt eru alveg út í loftið og gersamlega óvísindalegar. En örðugleikunum væri ekki heldur lokið með því. Feda og Raymond yrðu eftir þessari skýringu að vera dularþættir úr vitundarlífi miðilsins, töluvert sjálfstæðir. Annar þátturinn (Raymond) sýgur vitneskjuna út úr Lodge, en dylur hana fyrir hinum þættinum (Fedu). Og jafnframt því, sem annar þátturinn er svona snjall og máttugur, veður hann í þeirri gífurlegu villu, að hann sé tiltekinn framliðinn maður, og er mánuð eftir mánuð að beita þessum undramætti sínum til þess að sanna það, að hann sé einmitt sá maður og enginn annar. Enn fjarstæðara er að hugsa sér, að Raymond sé þáttur úr vitund frá Leonard, þegar þess er gætt, að hann kemur alveg eins fram hjá ýmsum öðrum miðlum. Naumast fer þó nokkur að hugsa sér, að allir miðlarnir hafi þennan þátt sameiginlegan. Mér er töluvert kunnugt um kenningarnar um skifting persónuleikans og þær rannsóknir, sem farið hafi fram á því fyrirbrigði, einkum á Frakklandi. En eg dirfist að neita því afdráttarlaust, að nokkuð, sem fram hefir komið við þær rannsóknir, gefi minstu ástæðu til að ætla, að Raymond sé þáttur úr sálarlífi frú Leonard eða þeirra miðla annara, sem hann hefir gert vart við sig hjá. Það er blátt áfram óvísindaleg trúgirni, sem ekkert á við að styðjast, að ætla slíkt.

* * *

**Fjölskylda Lodge.** Að lokum langar mig til þess að minnast nokkurum orðum á fjölskyldu Lodge. Það er merkilegt dæmi þess, hve örðugt er að ná til margra með þetta mál, að þrátt fyrir það, hve börn hans hafa auðsjáanlega litið upp til föður síns með mikilli lotningu, og þrátt fyrir einskæra ástúð, sem bersýnilega hefir alt af ríkt í fjölskyldunni, höfðu börn hans ekkert sint þessu máli á undan andláti Raymonds. Þau höfðu ekki lesið nokkura bók um málið, hvorki hans bækur né annara, og aldrei komið á nokkurn tilraunafund. Þau létu sér standa á sama um málið og voru mjög efablandin um það. En þetta spilti ekkert sambúðinni. Lífið var fult af margs konar áhugamálum öðrum, segir Lodge, og fram að andláti Raymonds fundu þau ekki til neinnar þarfar á því að hugsa verulega um líf eftir dauðann eða um það, hvort unt væri að koma skeytum milli heimanna. Aftur á móti virðist svo sem móðir þeirra, sem í upphafi var mjög rengingagjörn, hafi sannfærst fyrir 20 árum, án þess að þetta yrði henni samt sérstakt áhugamál.

En þegar þau fóru að frétta af fundunum, sem foreldrar þeirra höfðu verið á í London, fundunum, sem Raymond hafði gert vart við sig á, þá fóru þau að gerast forvitin. Og eg furða mig ekki á því. Raymond virðist hafa gert sér sérstakt far um að ná til bræðra sinna.

**Norman.** Til dæmis var það á einum af fyrstu fundunum — þar sem miðillinn fór ekki í sambandsástand, en notaði borð, að Lodge lagði þessa spurningu fyrir Raymond:

„Viltu nefna nokkurn bræðra þinna?"

Þá stafaði borðið nafnið Norman.

Enginn bræðranna hét Norman, og foreldrar þeirra, sem bæði voru viðstödd, töldu víst, að þetta væri vitleysa, og Lodge bað hann að reyna aftur. Þá kom nafnið Noel, sem var rétt.

En bræður Raymonds skildu „Norman". Þegar til þeirra kom, kom það upp úr kafinu, að Raymond hafði kallað þá þetta, þegar þeir voru að leikum, einkum einn þeirra. Þegar sérstaklega reið á að herða sig, hafði hann hrópað til þeirra: „Hana-nú, Norman!" í því skyni að örfa þá. Svo að þegar öllu var á botninn hvolft, var „Norman" langbezta nafnið, sem hann gat komið með, af því að foreldrar hans höfðu aldrei heyrt það, og þar af leiðandi fyrir það girt, að það væri sótt í þeirra vitund.

**Spurningar bræðranna.**

Bræðurnir tóku að gerast forvitnir, eins og eg sagði áðan. Og þeir tóku það ráð að búa út ýmsar afar-flóknar spurningar um sem lítilfjörlegust atriði úr lífi þeirra bræðranna, atriði, sem Lodge hafði enga hugmynd haft um. Sumum spurningunum svaraði Raymond furðanlega vel; við aðrar uppgafst hann. Lodge lítur svo á, sem yfirleitt hafi honum tekist fremur vel með þetta — einkum þegar þess er gætt, að þessar tilraunir voru gerðar rúmum mánuði eftir andlát hans. Tíminn frá andláti hans og fram að þessum tilraunum hefir verið fullur af óumræðilega merkilegri reynslu — ef nokkuð má marka frásögn hans á annað borð — margfalt merkilegri en nokkuð, sem fyrir hann hefir komið í jarðnesku lífi. Það er því í sjálfu sér ekkert undarlegt, þó að honum hafi,

að minsta kosti í bili, fallið eitthvað úr minni af gömlum, hversdagslegum atvikum, og að hann sé ekki sem bezt við því búinn að svara viðstöðulaust flóknum spurningum um þau. Hætt er við, að okkur gæti farið eitthvað líkt, ef fyrir okkur væri að koma afarmerkileg reynsla, þó að hún væri ekki jafn-merkileg eins og það að flytjast inn á annað svið tilverunnar.

En hvað um það — systkinunum þykja svo eftirtektaverðar fréttirnar frá Lundúnum, að þau eru ekki í rónni nema fara að reyna eitthvað sjálf. Þau gera það með tvennu móti.

**Lundúnaferðir systkinanna.**

Þau fara til Lundúna til skiftis, komast á fundi þar hjá miðlum og dylja, hver þau eru. Ekki stóð á Raymond að gera vart við sig. Sumir þessir fundir gengu ágætlega. En eg get ekki sagt frá þeim. Að eins skal eg minnast á fyrsta fundinn, sem Alec, einn sonurinn, kom á á æfi sinni. Hann er verkfræðingur og verksmiðjueigandi. Hann ætlaði að skrifa alt, sem á fundinum gerðist. En um stund gat hann ekkert skrifað fyrir geðshræring. Raymond var að tala gegnum miðilinn, en grét hátt. Alec þekti greinilega málróm bróður síns. Og Raymond lét miðilinn taka í hendurnar á honum og hann þekti handtak Raymonds. Allur efi virðist hafa gufað burt. Hann fann, að nú var hann að tala við framliðinn bróður sinn.

**Miðilslausar tilraunir.**

En þau létu sér ekki þetta nægja. Raymond lét í ljósi á Lundúna-fundunum, að sig langaði til, að tilraunafundir yrðu haldnir heima hjá fjölskyldunni, miðilslaust. Og hann

benti á, að sérstakt gagn mundi verða að einni systur sinni á þeim fundum. Þetta fóru þau að gera. Og það reyndist rétt, að þessi systirin hafði mesta miðilshæfileika í fjölskyldunni. Þau notuðu borð, til þess að ná sambandi. Ekki vantaði það, að borðið færi af stað. Það hamaðist og lék ýmsar listir. Tvö borðin brotnuðu og fleira vildi skemmast. Raymond kvað það ekki að sínum vilja, en ekki ráða við það, enda væru þar fleiri á ferðinni úr ósýnilegum heimi en hann. Eitt lítið dæmi þess, hve þessir samfundir við Raymond hafa farið að liggja fjölskyldunni í miklu rúmi, skal eg minnast á. Einu sinni var fjöldi gesta kominn á heimili Lodgehjónanna. Þá finnur einn bróðirinn á sér, að nú vilji Raymond eitthvað segja. Og móðirin og sum systkinanna sæta færi, meðan gestirnir eru að drekka kaffið, að tala við Raymond við borðið, og fá ágætan fund.

Eftir að tilraunirnar fóru að byrja heima, fór að bera á því, þegar einhver úr fjölskyldunni var á fundi með miðli í Lundúnum, að Raymond kom þar að vitneskju um borðtilraunirnar norður í Birmingham. Þetta þótti þeim ákaflega mikilsvert, sem von var. Og 26. maí 1916 kom einum bróðurnum til hugar að gera úrslitatilraun um þetta efni.

**Hónólúlú.**

Svo stóð á, að tvö systkinin áttu leið um Lundúnir, og ætluðu að sæta færi til þess að vera á fundi hjá frú Leonard. Þetta vissu systkinin hin, sem voru norður í Birmingham. Þá kemur einum bróðurnum þar til hugar að gera borðtilraun með tveimur systrum sínum um það leyti, sem fundurinn átti að vera í Lundúnum, reyna að ná í Raymond og fá hann

til að láta Fedu segja „Hónólúlú“ á Lundúnafundinum hjá frú Leonard. Þau gera þetta, og Raymond lofar þessu. Þetta gerist rétt eftir kl. 12 á hádegi.

Nú er að segja af Lundúnafundinum. Þeim systkinunum þótti hann fremur ómerkilegur, en skrifuðu jafnóðum alt, sem gerðist. En rétt eftir kl. 1 kom það, er nú skal greina, og var systkinunum alveg óskiljanlegt. Feda er að skila frá Raymond, og ávarpar systur hans:

„Þú getur leikið.“ — „Leikið hvað?“ segir systirin.

„Ekki leik, heldur á hljóðfæri.“ — „Eg er hrædd um, að eg geti það ekki, Raymond,“ segir systirin.

(Feda, lágt: „Hún getur það ekki.)

„Hann vill fá að vita, hvort þú getir leikið Húlú — Hónólúlú. — Jæja, getur þú ekki reynt það? Nú veltist hann um af hlátri.“

Eins og nærri má geta, þótti ekki lítils vert um þetta, þegar systkinin komu með fundargjörðina úr ferðinni. En þau höfðu enga hugmynd um, að neitt vit væri í þessu, fyr en þau voru komin heim og þeim var sagt frá tilrauninni með borðið í Birmingham. „Hónólúlú“ er enskur gamansöngur, auk þess sem það er nafnið á höfuðstaðnum á Havaii-eyjunum, sem systkinin norður í Birmingham hafa sjálfsagt átt við.

**Raymond sannfærir systkinin.**

Þar er skjótast af að segja, að Raymond hefir sannfært öll systkini sín um samband þeirra við sig, svo að ekki er orðinn neinn slæðingur eftir af efa í sálum þeirra. Og borðtilraunirnar heima hjá þeim eru þeim mjög hjartfólgnar. „Því að,“ eins og Lodge kemst að orði, „það er þeim að þakka, að Raymond heldur eins áfram

að vera meðlimur fjölskyldunnar og nokkuru sinni áður.“

**Gamla sagan.**

Þetta er gamla sagan, sem svo margsinnis hefir endurtekið sig: Mikill fjöldi manna er ófáanlegur til þess að sinna þessu máli neitt, fyr en dauðinn hefir komið eitthvað nærri þeim og gripið utan um hjarta þeirra. En svo er líka hitt, að þegar menn fara að sinna því af allri þeirri alúð, einlægni og samvizkusemi, sem þeir eiga til, þá ganga þeir úr skugga um, að sannanir hafa fengist þess, að mennirnir lifi eftir dauðann, og að stundum sé unt að ná sambandi við þá.

* * *

**Frásagnir mínar ófullkomnar.**

Hér verð eg að láta staðar numið. Eg hefi áður bent ykkur á, hve afar-ófullkomnar þessar frásagnir mínar hljóta að vera. Í bók Lodge er það sannanamergðin, sem ægir manni mest. Frá skeytunum frá Raymond er skýrt á 200 stórum blaðsíðum, og langmest eru þau sannanir. Og eg hefi ekki getað meira en sagt ykkur frá fáeinum fyrirbrigðum, og alstaðar orðið að stytta frásögnina nokkuð.

Annað er það, sem eg hefi alls ekki getað gefið mönnum neitt sýnishorn af. Það er v a r f æ r n i n, sem Lodge beitir. Hann er eins og alt af á verði, til þess að aftra því, að nokkur skuli fara að gera sér það í hugarlund, að þ a ð sé sönnun, sem ekki e r það. Hann lætur aldrei undan fellast að benda á þær veiku hliðar, sem

hann kann að sjá á sönnunargildi hvers einstaks atriðis.

Og í þriðja lagi læt eg þess getið, að eg tek það beinlínis nærri mér að geta ekki sýnt ykkur neitt af þeim anda, sem ríkir í allri bókinni — þeim hlýja undirstraum viðkvæmni, ástúðar og hógværðar, sem fer um hana alla.

**Skeytin, sem valdið hafa straumhvörfum.**

Eg get hugsað mér, að einhverjum finnist þessi skeyti Raymonds þurt fyrirlestrarefni — að þeim fari líkt og kerlingunni, sem sagði: „Ekki er gaman að guðspjöllunum, enginn er í þeim bardaginn; en verri eru þó helvítis pistlarnir.“ Eg veit, að það þarf nokkura áreynslu á hugann til þess að gera sér þess grein, hvað í þessum skeytum er fólgið. Og eg veit, að enginn er í þeim bardaginn — að þau geta ekki orðið neitt atkvæðamikil í frásögninni. En það eru sams konar skeyti eins og þessi, sem hafa á undanförnum áratugum verið að sannfæra vísindamenn veraldarinnar um það, að annað líf sé ekki hugarburður heldur veruleikur, þegar ekkert annað gat gert það. Að minsta kosti ætti að vera fróðlegt að athuga, hvers eðlis það er, sem valdið getur slíkum straumhvörfum. Og eg minni á það í þessu sambandi, sem hinn nýlátni biskup vor sagði í Kirkjublaðinu fyrir nokkurum árum, að ef vér yrðum þess fullvísir, að e i n mannsrödd bærist til vor handan úr eilífðinni, þá mundi það hafa meiri áhrif en allar prédikanir prestanna. Það gerir minst til, um hvað röddin talar. Heyrist hún, eða heyrist hún ekki? Á því veltur alt. Ef sjómannsmóðir heldur, að sonur hennar, sem var yndi

hennar og eftirlæti, sé druknaður, og hann kemur lifandi inn til hennar, þá skiftir minstu máli, hvernig hann er klæddur. Alt hverfur annað en þetta eina, að sonur hennar, sem var týndur, er aftur fundinn. Í engum mannshuga finst mér það ætti að vera þurt eða leiðinlegt efni, sem varpar einhverju ljósi yfir það, hvort mennirnir lifi, þótt þeir deyi. Það er óneitanlega aðalmál mannkynsins. Í samanburði við það verður alt annað smáræði.

---

Eg hefi auglýst, að í kvöld ætlaði eg að minnast á það, sem Raymond segir, að fyrir sig hafi borið í öðru lífi, og ofurlítið ágrip af því ætla eg nú að segja ykkur.

**Efnismunur.** Og nú verð eg að biðja ykkur að gæta þess vandlega, að það, sem eg fer nú að segja af Raymond, er annars eðlis en það, sem eg sagði ykkur í fyrra kvöld. Þá var eg að segja ykkur frá s ö n n u n u m. Eg sagði ykkur ofurlítið ágrip af þeim tilraunum, sem Raymond hafði gert til þess að sanna það, að hann væri Raymond, sami maðurinn, sem hafði lifað hér í heimi og var nefndur Raymond Lodge. Alt, eða flest að minsta kosti, sem Raymond sagði um það efni, var þess eðlis, að unt var að fá staðfesting á því, ef það var rétt, og eins að ganga úr skugga um villuna, ef það var rangt. En við getum ekki með sama hætti gengið úr skugga um, hvað rétt eða rangt það kann að vera, sem okkur er sagt úr öðru lífi. Fyrir því getur Lodge ekki tekið ábyrgð á því, sem Raymond segir þaðan. Og eg vona, að engum komi til hugar, að e g ætli mér að taka ábyrgð á því.

**Vísindamenn og frásagnir úr öðrum heimi.**

Lodge hefir auðsjáanlega verið í mjög miklum vafa um það, hvort hann ætti nokkuð að vera að skýra frá frásögnum Raymonds um það, hvað fyrir hann hafi borið í öðrum heimi. Yfirleitt hafa vísindamennirnir ekki gert það. Þeir hafa gefið út ógrynnin öll af endurminningasönnunum. En þeir hafa felt undan frásagnirnar úr öðrum heimi og lýsingarnar á honum. Það er ekki fyrir það, að þeir hafi ekki fengið sitt hvað af því tæinu. Enginn getur rannsakað miðla-fyrirbrigðin að nokkurum mun og farið á mis við þær frásagnir. Hvaða hugmyndir, sem menn kunna að gera sér um það, hvað rétt framliðnum mönnum takist að skýra frá þeim heimi, sem þeir lifa í, þá leynir það sér ekki, að þá langar til þess. Og eins víst er hitt, að frásagnir þeirra og kenningar hafa haft hin dýpstu áhrif á suma vísindamennina, sem við þetta mál hafa fengist, svo að þeir hafa ekki að eins sannfærst um lífið eftir dauðann, heldur hefir heit og lifandi trú og guðrækni og glampandi fögnuður út af tilverunni læst sig um og mótað alt sálarlíf þeirra.

Eftir miklar umhugsanir réð Lodge það af að prenta í bók sinni töluvert af frásögnum og lýsingum Raymonds úr öðrum heimi. Hann hefir sumpart gert það eftir áskorun frá franska heimspekingnum heimsfræga, prófssor Bergson. Bergson lítur svo á, sem þeir tímar geti komið, er einmitt frásagnirnar úr öðrum heimi verði mesta sönnunargagnið fyrir tilveru annars heims, líkt og sögur ferðamanna af ókunnum löndum. En jafnframt hefir það bersýnilega ráðið miklu hjá Lodge, að þar sem hann er afdráttarlaust sannfærður um, að Raymond hafi sannað sig,

þá sé ekki sanngjarnlega með hann farið, að fleygja því öllu í ruslakistuna, sem hann segir, og getur að sjálfsögðu ekki sannað.

**Sannanir og frásagnir úr öðrum heimi.**

Eg verð líka að láta þess getið að mínu leyti, að mér finst það blátt áfram óskynsamlegt að ganga fram hjá því öllu, sem að sjálfsögðu lokleysu, er framliðnir menn segja frá öðrum heimi, e f þeim hefir tekist að sanna, hverjir þeir eru. Mér finst afar-ólíklegt, að þeim sé s v o miklu örðugra að segja e i t t h v a ð rétt úr öðru lífi en að muna og koma með smávægileg atvik úr sínu jarðneska lífi, að a l t úr jarðneska lífinu geti orðið rétt hjá þeim, eins og segja má, að það hafi orðið hjá Raymond, en að e k k e r t verði hjá þeim annað en vitleysa, þegar þeir fari að lýsa þeim heimi, sem þeir eru nú í.

**Tvær leiðir.**

Við getum hugsað okkur tvær leiðir, til þess að fá einhverja vitneskju um, hvernig lífið sé í þeim heimi, sem við eigum að fara inn í eftir andlátið. Önnur leiðin er sú, að fá fregnir um það af framliðnum mönnum, ef þess er kostur. Eg er ekki í neinum vafa um það, að þess e r kostur, og sama segir mikill mannfjöldi út um allan heim.

Hin hugsanlega leiðin er sú, að við förum sjálfir inn í annan heim „í andanum“, eins og ritningin kemst að orði, meðan við eigum enn heima í þessum heimi, sendum vitundar-hluta vorn, eða eitthvað af honum, inn á önnur svið tilverunnar. Eg hefi enga reynslu af slíkri rannsókn, og get ekkert um hana borið. En fjöldi mikilsvirtra og gáfaðra manna fullyrðir, að þessa leið megi

fara. Og svo mikið hefi eg að minsta kosti lært af öllu því, sem fyrir mig hefir borið, að eg kann að varast það að vera að þræta fyrir það, sem eg veit ekkert um.

**Gagnrýni nauðsynleg.**

En séu báðar þessar leiðir færar, þá finst mér óskynsamlegt að gefa því alls engan gaum, sem þeir menn kunna að hafa að segja af öðrum heimi, sem einhver ástæða er til að ætla að hafi þangað komið. Mér er það fyllilega ljóst, að ekki má gleypa við þessum frásögnum gagnrýnilaust, eins og menn hafa áður gleypt við hverju orði ritningarinnar. Mér er svo sem ekki ókunnugt um það, hverjir örðugleikar eru á miðilssambandinu, og hve hætt er við að ýmislegt aflagist þar. Og þó að menn kunni að geta, og líklegast geti stundum, flutt vitund sína inn á næsta tilverustigið — þeir, sem lagt hafa stund á þá list — þá dylst mér það ekki, að það er að minsta kosti líklegt, að vitund hins jarðneska manns njóti sín ekki að fullu í hinum ókunna heimi, og að fyrir því geti hún á mörgu vilst þar.

En þó að við getum ekki gert ráð fyrir því, að vitneskjan um það, hvernig til hagi í öðrum heimi, sé óskeikul, þá virðist mér ekki skynsamlegt að álykta af því, að henni skuli enginn gaumur gefinn. Því fer mjög fjarri, að ferðasögur frá ókunnum löndum á jörðunni hafi reynst óskeikular; en samt er ekkert vit í að segja, að ekkert hafi verið á þeim að græða.

* * *

Kafli úr fundargjörðum 3. des. 1915.

Með þessum formála ætla eg þá að byrja á því, að lesa ykkur kafla úr tveimur fundargjörðum. Báðir fundirnir voru haldnir með frú Leonard sem miðli. Og Feda, litla framliðna stúlkan er milligöngumaður milli Raymonds og fundarmanns eða fundarmanna. Hún skilar stundum orðum hans beint, og stundum segir hún frá þeim, eins og hennar er siður. Fyrri fundurinn var haldinn 3. des. 1915, og Sir Oliver Lodge var eini fundarmaðurinn, auk miðilsins.

Skemtilegt hinumegin.

Feda segir þá þetta: „Hann hefir nýlega verið að athuga ýmsar tegundir manna, sem hafa komið yfir um, og þau ólíku áhrif, sem vistaskiftin hafa á þá.

„Ó, það er skemtilegt, segir hann — miklu skemtilegra en á gamla, jarðneska sviðinu. Mig langaði ekki til að yfirgefa þig og mömmu og þau öll, en það e r skemtilegt. Eg vildi óska, að þið gætuð komið hingað yfir um, og verið hér með mér einn dag.

Jarðneskir menn fara yfir um í svefni.

„Stundum komið þið hingað, en þið munið það ekki. Þau hafa öll komið þangað yfir um að næturlagi, og það hefir þú líka gert, en honum þótti það mjög leiðinlegt, að þið skylduð ekki geta munað neitt. Honum er sagt, (hann veit það ekki sjálfur, en honum er sagt) að heilinn mundi tæplega bera þungann af tvöfaldri tilveru, og mundi þá verða óhæfur til að gegna sinni daglegu skyldu; svo að endurminningin er lokuð úti. Það er skýringin, sem honum er gefin. . . .“

**Líkamar framliðinna manna.**

„Langar Raymond til þess að segja nokkuð meira um húsið sitt eða fötin sín eða líkama sinn?“ spyr Lodge.

„Ó já. Hann ætlar að rifna af löngun eftir því.

„Hann segir: Líkami minn er mjög líkur þeim líkama, sem eg hafði áður. Eg klíp mig stundum, til þess að vita, hvort hann sé verulegur, og hann er það, en mér finst ekki að mig kenni eins mikið til, eins og þegar eg kleip jarðneska líkamann. Innri líffærin virðast ekki eins gerð og áður. Þau geta ekki verið alveg eins. En að því er séð verður, og að utan eru líffærin eins og áður. Eg er nokkuð frjálsari í hreyfingum mínum, segir hann.

„Ó, eitt er, segir hann, eg hefi aldrei séð neinum blæða.“

„Mundi honum ekki blæða, ef hann stingi sig?“ spyr Lodge.

„Hann hefir aldrei reynt það. En hann hefir enn alls ekki séð neitt blóð.“

„Hefir hann eyru og augu?“ spyr Lodge.

„Já,já, og augnahár og augnabrúnir, nákvæmlega eins og áður, og tungu og tennur. Nú hefir hann fengið nýja tönn í stað annarar, sem hann hafði og var þá eitthvað gölluð.

„Hann þekti mann, sem hafði mist handlegginn, en nú hefir hann fengið annan handlegg. Já, hann hefir tvo handleggi nú. Svo virtist, sem hann vantaði liminn, þegar hann kom fyrst inn á astralsviðið, en eftir nokkurn tíma varð handleggurinn meira og meira heill, þang-

að til hann hafði fengið nýjan handlegg. Hann er að tala um menn, sem hefir vantað lim nokkur ár."

„Hvað er um limi, sem menn hafa mist í orustum?" spyr Lodge.

‚Ó, ef þeir eru nýbúnir að missa þá, skiftir það engu máli, það gerir ekkert til; þeir eru alheilir, þegar þeir koma hingað. En mér er sagt—hann veit það ekki sjálfur, en honum er sagt það—að þegar maður er sprengdur sundur í smástykki, þá þurfi andlegi líkaminn nokkurn tíma til þess að verða heill, til þess að safna öllu saman, og láta ekkert vanta á sig. Við þetta hefir verið dreift nokkuru af efni, sem heyrir sjálfsagt eternum til, og þá verður að koma því saman aftur. Auðvitað hefir a n d i n n ekki verið sprengdur sundur — hann á ekki við það — en þetta hefir áhrif á hann. Hann hefir ekki séð þetta alt, en hann hefir verið að grenslast eftir því, af því að hann langar til að vita um þetta."

„Hvað er að segja um líkama, sem eru brendir?" spyr Lodge.

**Mönnum er hjálpað til að deyja.**

„Ó, ef þeir hafa brunnið af slysi, og ef menn vita um það hérna megin, þá losa þeir andann frá líkamanum, áður en þetta gerist. Maður, sem við nefnum anda-lækni, kemur og hjálpar. Við erum stundum í óttalegum vandræðum með menn, sem hafa verið brendir of snemma. Það ættu menn ekki að gera; það er voðalegt; það hefir gert mér skapraun. Menn eru svo hirðulausir. Það er eins og það eitt vaki fyrir þeim, að flýta sér að losna við þá, úr því að þeir séu dauðir. [Eins og mörg ykkar vita sjálfsagt, er jarðarförum hraðað mikið meira en hér

á landi í flestum löndum]. Líkin ætti ekki að brenna fyr en eftir 7 daga, segir hann.

„En ef líkaminn fer að rotna?“ spyr Lodge.

„Ef hann fer að rotna, þá er andinn farinn. Meðan nokkur ögn er eftir af andanum í líkamanum, byrjar hann ekki að rotna. Það er verkun andans á líkamann, sem ver hann rotnun. Þegar þið talið um, að maðurinn sé að „dragast upp“, þá merkir það, að andinn er að búa sig til brottferðar, og smámsaman að fara úr líkamanum. Hann sá hérna um daginn mann, sem átti að brenna tveim dögum eftir að læknirinn hafði sagt, að hann væri dáinn. Þegar skyldmenni hans hérna megin fréttu það, komu þau með lækni frá okkar heimi, og þegar þau sáu, að andinn var í raun og veru ekki farinn úr líkamanum, þá magnetíseruðu þeir hann og hjálpuðu honum út. En samt var eftir þráður, og hann urðu þeir að slíta fremur skyndilega, og það varð nokkurt áfall fyrir andann, svipað eins og einhver aflimun; en þetta varð að gera. Hann heldur, að þetta verði alt af að gera. Hann á ekki við það, að andlegi líkaminn komi svona út úr jarðneska líkamanum, heldur að efni komi út úr líkamanum — vætli út, segir hann, og fari inn í hinn líkamann, sem verið er að gera úr garði. Vætli, segir hann, eins og eftir streng. Streng, segir hann. Þá sýnist það taka á sig lögun, eða eitthvað verður fyrir því og tekur á sig lögun utan um það. Eins og þetta mætist og renni saman, og verði að samstæðu við þann líkama, sem eftir er skilinn. Það er einstaklega hugnæmt, að athuga þetta alt.“

**Föt framliðinna manna.**

Nú fór Raymond að láta Fedu segja frá fötum hans í öðru lífi. En til þess að það verði mönnum ljósara, verð eg að fara ofurlítið aftur í tímann. Á fundi, sem ekki er skýrsla um í bókinni, af því að þar komu fram einkamál, sem ekki má birta, hafði Raymond minst á föt sín við bróður sinn. Á fundi, sem Lady Lodge hélt síðar með frú Leonard, færði hún þetta í tal við Raymond, eða öllu heldur við Fedu sem milligöngumann, og sagði þá:

„Okkur þótti gaman að heyra um fötin hans og annað dót hans; við getum ekki hugsað okkur, hvernig hann fær þau.“ — Þá svarar Feda, og talar, eins og hennar er siður, ýmist um Raymond, ýmist tekur orðin beint upp eftir honum:

**Raymond vildi ekki hafa fataskifti.**

„Þau eru öll búin til. — Geturðu hugsað þér, að þú sjáir mig í hvítum klæðum. Mér var ekki um þau í fyrstu, og eg vildi ekki vera í þeim. Alveg eins og þegar einhver fer í heitt land — einhver fávitringur, sem veit ekki, hvert hann er kominn; þetta er alveg eins. Hann kann að ráða það af að vera í sínum gömlu fötum um stund, en hann fer bráðlega að klæða sig eins og þarlendir menn. Raymond var leyft að vera eins klæddur hér og á jörðinni, meðan hann var að venjast loftslaginu; þeir létu hann gera það; þeir neyddu hann ekkert. Eg held ekki, að eg geti látið drengina sjá mig í hvítum klæðum“ (segir hann).

Þá held eg aftur áfram frásögninni á fundinum 3. des. Feda talar, eins og áður:

„Hann sagði Lionel, að hann hefði vantað föt fyrst. Hann hélt, að þeir mundu aldrei geta útvegað sér þau.“

„Já, eg skil þetta,“ segir Lodge. „Lionel sagði okkur frá því; að þú hefðir í fyrstu viljað fá eitthvað líkara þínum gömlu fötum, og að þeir hafi ekki neytt þig í nýju fötin, heldur látið þig byrja með gömlu fata-tegundinni, þangað til þú værir farinn að venjast staðnum.“

„Já, segir hann, þeir neyddu mig ekki, en flestir eru hér í hvítum klæðum.“

**Karlar og konur í öðrum heimi.**

„Geturðu þá gert nokkurn mun á körlum og konum?“ spyr Lodge.

„Hér eru karlmenn og hér eru konur. Eg held ekki, að afstaða þeirra, hvorra til annara, sé alveg sú sama eins og á jarðar-sviðinu, en þau virðast hafa sömu tilfinningar hvor til annara, en þær tilfinningar koma ekki fram með sama hætti. Hér virðast engin börn fæðast. Menn eru sendir inn í jarðneskan líkama til þess að eignast börn á jarðar-sviðinu; hér eignast þeir þau ekki. En ástartilfinning er hér milli karls og konu, sem er annars eðlis en kærleikur milli tveggja karlmanna og tveggja kvenna, og fundur hjóna er hér ekki með sama hætti eins og fundur milli mæðgina eða feðgina.

**Lyst á mat og drykk.**

„Hann segir, að sig langi ekki í mat nú. En hann sér, að suma langar í hann; hann segir, að sumir verði að fá eitthvað, sem líti út eins og jarðnesk fæða. Menn reyna hér að leggja þeim alt til, sem þeir þarfnast. Einn náungi kom yfir um hérna um daginn og heimtaði vindil. „Þetta ríður þeim að fullu,“ hélt hann. Hann átti við það, að þeir mundu aldrei geta komið með þetta. En hérnamegin eru verkstof-

ur, og í þeim eru alls konar hlutir búnir til. Ekki eins og þið gerið, úr föstu efni, heldur úr etertegundum og gastegundum. Það er ekki það sama eins og á jarðarsviðinu, en þeim hefir tekist að búa það til, sem lítur út eins og vindill. Hann hefir ekki reynt neinn sjálfur, því að hann hefir ekki langað í hann. Þú veizt, að hann mundi ekki hafa langað í hann. En hinn náunginn var fíkinn í hann. Og þegar hann fór að reykja hann, þótti honum hann ekki svo sérlega góður. Hann reykti fjóra alls, og nú lítur hann ekki við vindli. Það er eins og ánægjan af því verði ekki sama og áður, svo að þeir leggja það smámsaman niður. En fyrst, þegar þeir koma, langar þá í þetta. Sumir vilja fá mat, og sumir vilja fá sterka drykki; þeir biðja um sódavatn og whisky. Þið skuluð ekki halda, að það séu neinar ýkjur hjá mér, þegar eg segi, að þeir geti jafnvel búið til whisky. En þegar menn hafa fengið einn eða tvo skamta, þá sýnist þá ekki langa jafn-mikið í það — ekki þá, sem hér eru. Hann hefir heyrt um drykkjumenn, sem langar í það mánuðum og árum saman hérnamegin, en hann hefir engan þeirra séð. Þá, sem eg hefi séð, segir hann, langar ekki í það lengur — það er um þá líkt og hann sjálfan viðvíkjandi fötunum hans; hann gat slept þeim, þegar hann var kominn í hið nýja ástand.

„Hann vill fá menn til þess að skilja það, að alt er jafn-eðlilegt eins og á jarðarsviðinu.“

**Hús framliðinna manna.**

„Raymond,“ segir Oliver Lodge, „þú hefir sagt, að hús þitt sé gjört úr múrsteinum. Hvernig getur það verið? Úr hverju eru múrsteinarnir búnir til?“

„Hann hefir enn ekki komist að því. Sumir segja honum, menn, sem hann heldur, að ekki mundu vilja segja sér ósatt, að þeir séu búnir til úr einhvers konar útstreymi frá jörðinni. Hann segir, að eitthvað stigi upp, líkt og ódeilisagnir, og dragist aftur saman, þegar það sé þangað komið; þetta er ekki samfast, þegar það kemur, en við getum safnað því saman og dregið það saman — eg á við, þeir sem með mér eru. Þetta sýnist vera múrsteinar, og þegar eg snerti þá, þá eru þeir viðkomu eins og múrsteinar; og eg hefi líka séð þá dragast að þungamiðjunni.

**Útstreymi frá jörðunni.**

„Eitthvað er alt af stíga upp frá ykkar sviði; ósýnilegt — í ódeilisögnum, þegar það yfirgefur ykkar svið — en þegar það kemur í eterinn, safnast sérstakir eiginleikar kringum hverja ódeilisögn, og þegar það nær til okkar, geta sérstakir menn handsamað það, og búið til úr því samfasta hluti. Alveg eins og þið getið búið til samfasta hluti.

„Rotnunin, sem gerist á jarðarsviðinu, fer ekki öll forgörðum. Hún verður heldur ekki öll að áburði eða dufti. Sum rotnuð gróðurefni verða að áburði um tíma, en þau gefa frá sér útstreymi eða gas, sem stígur upp og verður að því, sem þið kallið ‚lykt'. Lykt er af öllu dauðu, ef þið takið eftir því; og eg veit nú, að lyktarefnin eru beinlínis til gagns, því að úr þeim getum við búið til samstæður sérhverrar þeirrar myndar, sem þetta hafði, áður en það varð að lykt. Jafnvel lyktin af gömlum við, er öðruvísi en lyktin af nýjum við; menn verða að vera lyktarnæmir, til þess að verða þessa varir á jarðarsviðinu.... Mismunandi dúkar senda frá sér mismunandi lykt — fúið léreft lyktar öðruvísi en fúin ull.

Þú skilur, hvað eg hefi mikið gaman af öllu þessu. Eftir því, sem eg hefi komist næst, virðist svo, sem fúna ullin sé notuð til þess að búa til það, sem líkist ullardúkum ykkar megin. En eg er nú farinn að koma með óáreiðanlegar ágizkanir. Eg geri ráð fyrir, að fötin mín hafi verið búin til úr fúnu ullarbandi ykkar megin.

**Skoðanamunur framliðinna manna.**

„Sumir menn hér vilja ekki þýðast þetta — um að alt eigi upptök sín í efninu. Þeir tala um andleg klæði, búin til úr ljósi, og að þau hafi ofist úr hugsunum á jarðarsviðinu. Eg trúi því ekki. Þeir eru að halda, að þetta séu ekki annað en hugsanaklæði, sem þeir eru í, og stafi af því andlega lífi, sem þeir hafi lifað; og þegar við reynum að segja þeim, að þau séu búin til úr efnum, þá trúa þeir því ekki. „Nei, nei, það er skykkja úr ljósi og birtu, sem eg bjó mér til með hugsuninni,“ segja þeir. Svo að við erum ekkert að þræta við þá. En hitt segi eg ekki, að þeir fái ekki fögru klæðin fljótara, ef þeir hafa lifað andlegu lífi þarna niður frá; eg held, að svo sé, og þess vegna er það, að þeir halda, að þeir búi til klæðin með lífi sínu.“

* * *

**Kafli úr fundargjörð 24. marz 1916.**

Nú ætla eg að segja ykur kafla úr hinni fundargjörðinni. Sá fundur var haldinn nokkurum mánuðum síðar, 24. marz 1916, með frú Leonard sem miðli, eins og hinn, og með Fedu sem milligöngumanni. Viðstödd voru Lodgehjónin. Feda talar:

**Undirbúningur undir æðra svið.**

„Hann hefir verið að hlusta á fyrirlestra, í ‚lærdóms-höllum', sem þeir nefna svo; menn geta búið sig undir æðri sviðin, meðan þeir hafast við á lægri sviðunum. Hann er á 3. sviðinu, en honum er sagt, að jafnvel nú gæti hann farið á það 4., ef hann vildi það; en hann segist heldur vilja kynnast því lögmái, sem á hverju sviði ríkir, meðan hann er enn á þriðja sviðinu, af því að það heldur honum nær vinum sínum — að minsta kosti þangað til þið tvö eruð komin yfir um. Hann vill vera kyr og læra, þar sem hann er. Hann mundi una því illa að færast ofar þar, og komast síðar að raun um, að örðugt væri að komast til baka. Hann vill bíða, þangað til þið getið orðið samferða ánægjulega og þægilega.

„Þætti ykkur gaman að heyra um einn af þeim stöðum, sem hann hefir komið á? Það er honum svo hugnæmt, að hann er hræddur um, að ykkur finnist það vera ýkjur; en reynslan er svo dásamleg og hún lifir í honum.

**Á 5. sviðinu.**

„Hann fór til staðar á 5. sviðinu — staðar, sem honum fanst gerður úr alabastri. Hann er ekki viss um, að svo hafi í raun og veru verið, en hann hafi líkst því. Hann var líkur einhvers konar musteri — stóru musteri. Fjöldi manna var að fara þar inn, og þeir voru ánægjulegir á svipinn. Og hann hugsaði með sér: „Mér þykir gaman að vita, hvað eg fæ að sjá hér." Þegar hann var kominn inn í mannþröngina, sem var að fara inn í musterið, þá fanst honum nokkurs konar — (nú þagnar hann til að hugsa sig um). Hann segir það ekki af neinu lotningarleysi, en honum fanst það líkast því, sem hann hefði drukkið of mikið af

kampavíni — það steig honum til höfuðsins, honum fanst hann of léttur á sér, eins og hann bærist ofurlítið upp í loftið. Það kemur af því, að hann er ekki að fullu samstiltur ástandinu á því sviði. Það er afar-einkennileg tilfinning.

**Ljósið í musterinu.**

„Hann fór inn, og hann sá, að þó að húsið væri hvítt, þá var ljósið marglitt: eins og á sumum stöðum lægi rautt ljós, á öðrum stöðum blátt, og í miðjunni var það gult. Þetta voru ekki þeir skörpu litir, sem nefndir eru svona, heldur með mildum blæbrigðum. Og hann leit kringum sig, til þess að sjá, hvaðan þeir kæmu. Þá sá hann, að margir af gluggunum voru afar-stórir, og rúðurnar í þeim voru með þessum litum. Og hann sá, að sumt af fólkinu vildi standa í ljósrauða ljósinu, sem kom gegnum rauða glerið, og aðrir vildu standa í bláa ljósinu, og sumir vildu standa í gulleita ljósinu og hann hugsaði með sér: „Hvers vegna gera þeir þetta?“ Þá sagði einhver honum, að ljósrauða ljósið væri ljósið með kærleikslitnum; og bláa ljósið væri ljós verulegrar andlegrar lækningar; og gula ljósið væri ljós vitsmunanna. Og að menn færu og stæðu í þessu mismunandi ljósi, eftir því, hvað þeir girntust. Og leiðsagnarandinn sagði honum, að um þetta væri meira vert en jarðarbúar vissu. Og að á komandi árum mundu menn leggja stund á að læra að þekkja áhrifin af mismunandi ljósum.

„Mennirnir, sem voru í ljósrauða ljósinu (kærleiksljósinu) sýndust gáfaðir og þroskaðir í hegðun og hugarfari yfirleitt; en þeim hafði ekki tekist að rækta mikið kærleiks-áhugann; önnur áhugamál þeirra höfðu orðið

þessu eina ofurefli. Og fólkið, sem fór inn í vitsmunaljósið, sýndist mildara og ánægt, en ekki jafn-gáfulegt. Hann segir, að sig hefði langað meira inn í rauða ljósið (kærleiksljósið) en einhver hafi þá sagt við sig: „Nei, þú hefir fengið töluvert af því,“ og hann fór út úr því, og inn í hin tvö, og hann fann, að honum féll bláa ljósið bezt (lækningaljósið). Og hann heldur, að ef til vill kunnið þið að leggja einhvern sérstakan skilning í það. Eftir að eg hafði verið í því nokkurn tíma, (segir hann) fann eg að ekkert skifti máli, annað en það að búa sig undir hið andlega líf. Hann segir, að hinn gamli Raymond hafi virzt langt burtu, meðan á þessu stóð, eins og hann sjálfur væri að horfa aftur á bak á líf einhvers annars — einhvers, sem eg stóð ekki í nánu sambandi við (segir hann) og var samt bundinn við mig. Og hann hugsaði með sjálfum sér: „Hvað gerir til um nokkurn skapaðan hlut, ef eg get að eins náð þessari yndislegu lyftingar-tilfinning?“ Eg get ekki sagt ykkur, hverju mér fanst þetta líkt, en þegar þið lesið það seinna, getur verið, að þið skiljið það. Orð eru magnlaus til að lýsa því. Hann ætlar ekki að reyna það; hann ætlar að snúa sér að því að segja ykkur, hvað gerðist þar á eftir.

**Kennararnir.** „Við settumst niður — sætunum var raðað nokkuð líkt og stólum í kirkju — og þegar hann leit á ganginn milli sætanna, sá hann eitthvað 7 menn koma inn eftir honum. Og hann sá, fyrir það, sem áður hafði fyrir hann borið, að þetta voru auðsjáanlega kennarar ofan af 7. sviðinu. Hann segir, að þeir hafi farið inn í endann á salnum, og þeir námu

staðar á dálitlum upphækkuðum palli; og þá kom einn ofan eftir hverjum litla ganginum, og lagði hendur sínar á þá, sem sátu í stólunum. Og þegar einn þeirra lagði hendur sínar á höfuð Raymonds, þá fann hann sambland af öllum þremur ljósunum — það var eins og hann skildi alt, og eins og alt, sem nokkuru sinni hafði í huga hans komið af reiði eða skapraun, virtist alls ekki neitt. Og honum fanst eins og hann geta náð sérhverju háleitu takmarki, og eins og hann gæti reist alla við, sem umhverfis hann voru. Eins og hann hefði slíkan mátt í sjálfum sér. Nú þagnar hann, til þess að hugsa um það aftur.

„Menn sátu og hlustuðu, og fyrsti hluti athafnarinnar var erindi, sem einn leiðsagnarandinn flutti; hann sagði mönnum þar, hvernig ætti að kenna öðrum á lægri sviðunum og á jarðneska stiginu, hvernig ætti að komast meira inn í hið andlega líf, meðan þeir væru ekki lengra komnir. Eg held, að alt, sem gerðist áður, hafi gerst til þess að gera mönnum auðveldara að skilja þetta. Og hann náði ekki að eins orðum ræðumannsins, hann náði líka hugsuninni — heilum setningum í einu í stað einstakra orða. Og kensla fór fram í því að festa hugann við eitt efni í einu, og í því að varpa út frá sér upplyftandi og gagnlegum hugsunum til þeirra manna, sem eru á jarðneska sviðinu.

**Hann fann, að hann var að hjálpa.**

„Og meðan hann sat þarna — þeir sátu, en krupu ekki — þá fann hann eitthvað streyma út frá sér, gegnum hin sviðin til jarðarinnar, og að hann var að hjálpa einhverjum, þó að hann vissi ekki, hver það var. Hann getur

ekki komið orðum að því við ykkur, hvað dásamlegt það var; það gerðist ekki að eins einu sinni, heldur nokkurum sinnum.

**Hann langaði ekki til að vera á 6. sviðinu.**

Hann hefir jafnvel líka komið á 6. sviðið. Það svið var jafnvel enn yndislegra en það 5., en hann langaði ekki til að hafast þar við. Hann vildi heldur fást við að hjálpa mönnum þar sem hann er."

„Sér hann það, sem amar að jarðneskum mönnum?" spyr Lodge.

„Já, hann sér það stundum.

**Ferðin, sem allir verða að fara.**

„Eg vildi óska, að við gætum breytt mönnunum svo, að þeir skömmuðust sín ekki fyrir að tala um þá hluti, sem máli skifta (segir hann). Hann getur séð menn búa sig undir sumarfrí sitt, og samt getur eitthvað komið fyrir, sem aftrar því, að nokkuð verði úr því. En undir ferðina, sem þeir verða að fara einhvern tíma, búa þeir sig alls ekki."

„Hvernig geta menn búið sig undir hana?" spyr Lady Lodge.

„Með því að tala um hana hispurslaust, og lifa svo lífinu, að hún verði auðveldari sjálfum þeim og öðrum."

* * *

**Athuganir.**

Nú langar mig til þess að biðja ykkur að nema staðar með mér ofurlitla stund, til þess að athuga það, sem eg hefi nú lesið ykkur úr fundargjörðunum. Ef við gerum ráð fyrir, að aðalkjarninn í

þessu sé ekki fjarri lagi — og mér finst ekkert óskynsamlegt að gera ráð fyrir því — þá finst mér rétt að athuga það, sem einkum virðist vera í þessu fólgið, íhuga hverjar hugmyndir um annað líf verði helzt út úr þessu dregnar.

**Verulegt líf.**

Fyrst verður það þá fyrir mér, að lífið hinumegin er, eftir þessum frásögnum, ekkert skuggalíf, eins og menn hafa stundum hugsað sér, heldur mjög verulegt. Þó að mannslíkaminn þar sé auðvitað alt öðruvísi en mannslíkaminn hér, þá finst þeim hann eins, af því að skynfæri þeirra eru samstilt honum, og að allri lögun er hann eins. Mönnum finst í fyrstu þeir vera alveg eins og áður en þeir fóru héðan. Þeir verða ekkert óverulegri í sjálfs sín augum né annara þar, þó að þeir séu orðnir ósýnilegir okkur. Hvað getur verið verulegra, né líkara sumum okkar, en að fara tafarlaust að biðja um mat og vindil og whisky og sódavatn?

**Mismunandi hugmyndir framliðinna manna.**

Annað er það, hve afar-ólíkar hugmyndir mennirnir gera sér, eftir þessum frásögnum, um þann nýja heim, sem þeir eru komnir inn í, að minsta kosti í fyrstu, og hver veit hvað lengi? Þeim kemur jafnvel ekki saman um það, hvort fötin, sem þeir eru í, séu búin til af öðrum, eða hvort þeir hafi skapað sér þau sjálfir með hugsunum sínum og andlegu lífi, ef til vill þegar hér á jörðinni, ef til vill á lægri sviðum tilverunnar fyrir handan. Mér finst þetta í raun og veru einkar eðlilegt, þegar við athugum, hvað mennirnir hafa lengi haft lítinn skilning á jarðneskum efnum, og hafa jafnvel enn. En ef

við gerum ráð fyrir þessum skoðanamun og þessari vanþekking hinumegin, þá fer ekki að verða neitt kynlegt, þó að lýsingarnar geti orðið nokkuð sundurleitar, þegar þær koma til okkar, og það þótt þær aflagist ekkert á leiðinni gegnum miðilssambandið — sem því miður má oft búast við.

**Kærleikurinn glatast ekki.**

Eftir þessum frásögnum og eftir öllum öðrum frásögnum, sem handan að berast, helzt við kærleikurinn til manna hér á jörðunni hjá framliðnum mönnum. Afskiftin af jarðarbúum virðast vera mikil handan af hinum löndunum. Mönnum er hjálpað í lífinu, og mönnum er hjálpað í andlátinu. Út úr því, sem Raymond segir um það, að mönnum sé hjálpað til að losna við líkamann, dettur mér í hug atvik, sem eg var heyrnarvottur að fyrir nokkurum árum. Maður hafði fyrirfarið sér með hroðalegum hætti. Á eftir var okkur sagt — af framliðnum manni, að því er hann sjálfur sagði — fram af vörum miðils, sem vitanlega hafði enga hugmynd um slíkar kenningar, að andi mannsins hefði ekki getað losnað, þó að líkaminn hefði verið orðinn óhæfur fyrir hann, að ástandið hefði verið hryllilegt, og að aðstoð hefði orðið að fá úr öðrum heimi, til þess að hjálpa manninum til að skilja við að fullu.

**Trúarhugmyndir breytast.**

Festi hann nú rætur, þessi skilningur um hjálpina handan að, þá getur naumast hjá því farið, að hann breyti trúarhugmyndum sumra manna að einu leyti. Mér finst, að prótestanta-kirkjurnar, lúterska kirkjan ekkert síður en aðrar, hafa haft tilhneiging til þess að þurka út úr meðvitund manna allar

verur milli guðs og mannanna, að minsta kosti láta svo, sem þær verur komi okkur ekkert við. Sú margvísleg hjálp, sem mönnum er kent, að þeir fái af hæðum, eða að minsta kosti geti fengið þaðan, hugsa víst margir sér að komi beint úr almættishendi drottins, án nokkurra milliliða. Eftir þessum kenningum er þessu ekki svo farið. Auðvitað hugsa allir guðstrúarmenn sér, að faðir vor á himnum standi með einhverjum hætti bak við alt gott í tilverunni. En eftir þessum kenningum notar hann milliliði til þess að hjálpa mönnunum. Við sjáum, að hann notar milliliði hér á jörðunni. Hann notar góða menn til þess að hjálpa öðrum. Eftir frásögnum Raymonds, og eg held allra annara framliðinna manna, eru svið himnanna full af ástríki og hjálpfýsi í okkar garð, og líka af mætti til þess að veita okkur aðstoð og líkn. Magn viljans og hugsunarinnar er þar orðið svo miklu meira en við fáum gert okkur í hugarlund.

**Fortilvera.** Að lokum langar mig til að benda ykkur á ofurlítið atriði, þó að tæplega verði það nema til gamans. Að minsta kosti vona eg, að þið takið það ekki svo, sem eg beri þar ábyrgð á neinni kenningu. Þegar Raymond er að skýra föður sínum frá því, að menn virðist ekki eignast börn í öðru lífi, segir hann, að þeir séu „sendir inn í jarðneskan líkama“ til þess að eignast börn hér. Lodge gekk þar ekki á lagið, spurði einskis. En ef þetta er nákvæmlega rétt orðað hjá Raymond, þá bendir það til þeirrar kenningar, að mennirnir hafi verið til sem sjálfstæðar verur á undan jarðlífinu. Því fer svo sem fjarri, að þetta væri ný kenning, þó að svo bæri að skilja, sem Raymond haldi þessu fram. Henni

hefir áreiðanlega verið trúað um afarmargar aldir, af mörgum eða fáum á hverjum tíma. Og margir halda henni fram um þessar mundir. Sjálfsagt muna allir, sem lesið hafa „Bláfuglinn“ eftir Maeterlinck, eftir atriðinu ógleymanlega, þar sem verurnar koma fram, þær sem eiga að fæðast inn í þennan heim. Og eg get í þessu sambandi ekki stilt mig um að segja ykkur að gamni mínu frá ofurlitlu atviki, sem kom fyrir á tilraunafundi, sem eg var á fyrir skömmu. Það, sem telur sig vera framliðinn mann, og eg held líka, að sé framliðinn maður, var að tala fram af vörum miðilsins. Alt í einu fór hann að segja okkur frá ofurlitlu stúlkubarni, sem sæti í kjöltu einnar konu, sem var á fundinum. Frúin gat ekki hugsað sér, að neitt framliðið stúlkubarn á þessu reki gæti verið neitt við sig bundð. — „Það er ekki heldur framliðið,“ sagði sá sem talaði. „Það er ófætt. Það verður ekki þín dóttir,“ sagði hann við frúna. „En þér er ætlað að taka hana að þér og ala hana upp, þegar þar að kemur.“ — „Eru menn þá til, áður en þeir koma hingað?“ spurði einn fundarmanna. — „Haldið þið,“ sagði þá sá, sem var að tala út af vörum miðilsins, „að mennirnir verði fyrst til með þessu hylki?“ Og það var nokkur fyrirlitning í rómnum út af slíkri fávizku. Það er svo stutt síðan er þetta gerðist, að umsögnin gæti ekki verið komin fram, þó að hún væri ekki markleysa. En óneitanlega væri gaman að vita, hvort litla stúlkan kemur nokkurn tíma fram í þessum heimi.

* * *

Raymond sér Krist.

Eg kem þá að þeirri frásögn Raymonds úr öðrum heimi, sem mér þykir mest um vert. Eg á við það, þegar Raymond kveðst hafa séð Krist. Þessi frásögn, sem eg ætla nú að lesa ykkur, er kafli úr skýrslu um fund, sem haldinn var 4. febr. 1916. Lady Lodge var ein með miðlinum, frú Leonard. Dálítið er það eftirtektarvert, að Raymond sagði síðar, að hann mundi ekki hafa getað komið með þessa frásögn, ef nokkur hefði verið viðstaddur annar en móðir hans. Samúðaröldurnar virðast hafa verið ríkastar hjá henni, og á þeim sýnist hann hafa þurft að halda, til þess að geta þetta. Feda er milligöngumaðurinn úr öðrum heimi, og nú skilar hún orðum Raymonds beint, eins og hann væri sjálfur að tala. Hún skilar þessu frá honum:

Skrautlegur staður.

„Mamma, eg kom á skrautlegan stað hérna um daginn."

„Hvar var það?" spyr Lady Lodge.

„Guð má vita! Mér var leyft það, svo að eg gæti séð, hvað var að gerast á hæsta sviðinu. Venjulega koma tignu andarnir til okkar.

„Mér þætti gaman að vita, hvort eg get sagt þér, hvernig þar var umhorfs."

Eyður.

Nú kemur eyða í frásögninni. Lodge segir, að meðan menn séu ekki alment orðnir þess fullvísir, að annað líf hafi sannast, sé litið svo á, sem það eigi ekki við og sé óhyggilegt að skýra frá slíkri reynslu, sem þeirri, er menn geti gert sér í hugarlund að þessi viðburður hafi verið, í bók, sem að mestu leyti fáist við sannanir. Fyrir því kveðst hann sleppa lýsingunni hér,

og sömuleiðis stuttum ummælum, sem Raymond hefir auðsjáanlega sagt, að hafi verið orð Krists. En að hinu leytinu telur hann það ekki nema sanngjarnt að segja söguna, að því leyti, sem hún lýtur að tilfinningum hins unga, framliðna manns sjálfs, af því að annars mundu menn fá ófullkomna og einhliða hugmynd um framkomu hans, og geta farið að hugsa sér, að hann hugsi ekki um annað en tiltölulega hégómleg atriði. Á eftir eyðunni kemur þetta:

**Hvað honum varð um þetta.**

„Eg fann mig hafinn upp, hreinsaðan, gerðan æðri. Eg kraup. Eg gat ekki staðið upprettur, eg þ u r f t i að krjúpa."

Þá kemur aftur eyða og því næst þetta:

„Mamma, eg titraði frá hvirfli til ilja. Hann kom ekki nærri mér, og mér fanst ekki eg vilja færa mig nær honum. Mér fanst, eg ætti ekki að gera það. Röddin var líkust klukkuhljómi. Eg get ekki sagt þér, í hvaða klæðum hann var. Alt var eins og sambland af skínandi litum. Ekki er til neins, að eg sé að reyna að lýsa þessu; geturðu hugsað þér, hvernig tilfinningar mínar voru, þegar hann lét þessa yndislegu geisla falla á mig? Eg veit ekki, hvað eg hefi til þess unnið, að verða þessarar dásamlegu reynslu auðið. Mér hefir aldrei komið til hugar, að slíkt væri hugsanlegt, að minsta kosti ekki um mörg, mörg, mörg ár. Enginn gæti lýst því, hvernig tilfinningar mínar voru; eg get ekki gert grein fyrir því.

„Ætli þau (systkini hans) skilji þetta?

„Eg veit, að faðir minn og þú skilja það, en mig langar til að hin reyni það. Eg get ekki komið orðum að því.

„Eg gat ekki gengið; það varð að fara með mig aftur til Sumarlandsins; eg veit ekki, hvað fyrir mig kom þá. Hugsaðu þér, að það líði yfir mann af fögnuði! Voru þetta ekki yndisleg orð?

Fá allir að sjá hann?

„Eg hefi spurt, hvort Kristur muni koma og allir fái að sjá hann; en mér var svarað: ‚Ekki í alveg sama skilningi, eins og þú sást hann.‘ Mér var sagt, að Kristur væri æfinlega í anda á jörðunni — eins og eitthvað kastist út frá honum, eitthvað líkt þessum geislum, eitthvað sé af honum í hverjum manni.

„Menn halda, að hann sé sérstakur andi, hafist við á sérstökum stað. Kristur er alstaðar, ekki sem persóna. En svo er líka persónan Kristur, og hann lifir á æðra lífssviði, og það er hann, sem mér var leyft að sjá.

Erindið, sem honum var falið að reka.

„Mér var sagt meira í þessu yndislega ávarpi; eg get ekki munað það alt. Hann sagði það nálega alt, og orðrétt það, sem eg hefi sagt þér. Þú sér af því, að mér er falið að reka erindi, að hjálpa nálægt jarðarsviðinu.

„Á eg að segja þér, hvers vegna eg er svo glaður? Það er út af verkinu, sem mér er falið af æðsta valdinu, sem til er!

„Fyrst og fremst er það, að mér þykir metnaður að því að vinna h a n s verk, hvaða verk sem það er; en mesta gleðiefnið er það, að eg get verið nærri þér og föður mínum.“

„Ef við gætum að eins orðið þess verðug,“ segir móðir hans.

„Þið eruð bæði að gera hverja ögn, sem þið getið.“

„Jæja, mér er að takast að elska mennina meira en eg gerði áður,“ segir móðir hans.

Fjársjóðurinn.

„Mamma, ætli þau haldi nú, að eg sé að fara með skrum eða hégóma? Þetta er svo dásamlegt; ætli þeim takist nú að skilja það, að það sé einmitt Raymond, sem hefir orðið fyrir þessu? .... Eg hefi safnað því saman, eins og fjársjóð, til þess að segja þér þetta í kvöld. Eg frestaði því, af því að eg vissi ekki, hvort eg mundi geta sagt það með réttum orðum, sem gætu vakið hjá þeim sömu tilfinningar eins og hjá mér — eða eitthvað líkar. Er þetta ekki huggunarríkt? Hugsið þið vel um það, þú og faðir minn. Eg bað ekki um verk nálægt jarðarsviðinu! Eg hélt, að mér mundi verða séð fyrir því, sem bezt væri. En hugsaðu þér, að mér skuli hafa verið falið það verkið, sem eg mundi hafa beðið um.“

„Þú ert þá nær?“ spyr móðir hans.

Fögnuður út af návist við jörðina.

„Miklu nær! Það er svo yndislegt að hugsa sér, að nú á eg rétt á því að vera nærri jarðarsviðinu. Þegar þar að kemur, á eg að færast upp í einu stökki, eins og Fedu hefir verið lofað, í stað þess að færast upp smátt og smátt. Og þegar þú kemur og faðir minn, þá verður þú við aðra hliðina og faðir minn við hina. Við verðum um tíma í Sumarlandinu, til þess að venja okkur við ástandið. Líklegast þurfum við að hafa eftirlit með hinum, segir hann. Hann á við systkinin sín. Eg get ekki sagt ykkur, hvað ánægður eg er — ánægður er fátæklegt orð.

„Um hvað, góði minn?“ spyr móðir hans.

„Um það að vera nærri jarðar-sviðinu.

**Lotningar-ótti.** „Eg hefi þrengt mér áfram, síðan eg fór að venjast við ástandið hér, og samt var það svona, að þegar eg kom í viðurvist konungsins, varð eg gagntekinn af lotningarótta.

„Hvernig geta menn ....

„Það kom mér til þess að óska þess, þau fáu augnablik, sem eg gat nokkuð hugsað, að eg hefði lifað svo hreinu lífi, sem framast er unt að hugsa sér. Hvað lítil smáögn, sem maður hefði gert, mundi hún verða eins og að fjalli þar. Eg hafði ekki mikinn tíma til að hugsa, en eg fann mikið til þessar fáu sekúndur ....

**Hlaðinn dásamlegum mætti.** „Eg fann, þegar eg kom aftur til Sumarlandsins, að eg var h l a ð i n n einhverju — einhverjum dásamlegum mætti. Eins og eg gæti stöðvað fljót, flutt fjöll úr stað; og eg er svo dásamlega glaður.

**Játningar og verk.** „Mr. Myers þykir mjög vænt um þetta. Hann segir, að eg eigi að vita það, að það séu ekki æfinlega prestarnir, sem í fyrstu komist hæst. Það er ekki undir því komið, hvað menn hafa játað, heldur hvað menn hafa gert. Ef menn hafa ekki haft ákveðna trú á lífi eftir dauðann, en hafa reynt að gera eins mikið og þeir gátu, og lifað sæmilegu lífi, og látið það hlutlaust, sem þeir hafa ekki skilið, þá er ekki meira af þeim heimtað. Þegar menn íhuga, hvað einfalt þetta er, þá mætti ætla, að allir mundu gera þetta. En þeir eru mjög fáir, sem gera það.

**Breytingar í vændum.** „Við okkar megin búumst við því, að á fáum árum muni verða mikil breyting á högum manna á jarðar-sviðinu.

„Eftir 5 ár verða þeir miklu fleiri, sem vilja eitthvað fá að vita um lífið, sem er í vændum, og hvernig þeir eigi að lifa svo á jarðar-sviðinu, að þeim líði sæmilega vel, þegar þeir flytjast yfir um. Ef þeir vilja það ekki annars vegna, þá vilja þeir það af hyggilegri forsjálni. En því meira, sem þeir vita, því meiri stund leggja þeir á göfugt líferni.“

* * *

**Að tala við Krist.** Eg sagði áðan, að um þessa frásögn Raymonds úr öðru lífi þætti mér mest vert. Hugsið þið ykkur — að tala við Krist — augliti til auglitis — væri það ekki alveg óumræðilega dýrlegt?

**Örðugt að trúa slíku.** Okkur veitir dálítið örðugt að hugsa okkur, að við getum fengið sannar fregnir af slíkri reynslu. Jafnvel þó að við séum farnir að sannfærast um það, að framliðnir menn séu enn lifandi, og að þeir geti látið okkur verða vara við sig, þá veitir hugurinn mikla fyrirstöðu, þegar slík frétt kemur.

Vegna hvers?

Sumpart er það vafalaust sprottið af heilbrigðri gagnrýni-tilhneiging 19. aldar mannanna. En það er ekki eingöngu frá henni komið. Við erum svona jafnframt vegna þess, að kynslóð eftir kynslóð, öld eftir öld, hefir hrá-

blautri hjalvoð óveruleikans verið vafið utan um trúarhugmyndir okkar. Alt hefir verið gert óákveðið, óverulegt. Og þegar minst er á hinn sanna veruleik trúarbragðanna, sem kristindómurinn hafði upphaflega á boðstólum, þá hristum við höfuðin og segjum: Nei, þetta læt eg ekki telja mér trú um!

**Hví ekki fregnir af Kristi.**

Ef við fáum á annað borð skilning á því, að framliðnir menn séu að gera okkur vart við sig, og ef við getum treyst sambandið sæmilega — meðal annars með því að vernda og uppala miðlana og vera ekki alt af að búa til hina og aðra örðugleika, með óskynsamlegum lifnaði, fávíslegum og þrjózkufullum rengingum, og margvíslegri heimsku annari — þá er mér óskiljanlegt, hvað ætti að sjálfsögðu að vera því til fyrirstöðu, að við gætum fengið áreiðanlegar fregnir af drotni vorum Jesú Kristi. Þó að hann sé óendanlega hátt upp hafinn yfir okkur, þá er hann framliðinn maður, alveg eins og mennirnir, sem eiga útför þessa dagana. Og eftir því, sem við höfum sögur af honum hér á jörðunni, getum við að minsta kosti hugsað okkur, að ekki sé honum annað ljúfara, en að veita þeim áheyrn, sem þrá af einlægni að nálgast hann og sækja til hans kraft til þess að efla sannleikann og réttlætið og hjálpa meðbræðrum sínum í þrengingum þeirra.

**Mesta gagnið.**

Gerum nú ráð fyrir því allra snöggvast, þótt ekki sé nema meðan við erum hérna inni — eg býst við að mörgum okkar veiti það örðugt, þegar við verðum komnir út í veraldarvastrið á morgun — gerum ráð fyrir því, að sá yrði árangurinn af rannsókn dularfullra fyrirbrigða, að menn töluðu alment við fram-

liðna ástvini sína, með jafn-mikilli sannfæringar-vissu um, að þetta séu þeir, eins og Lodge talar við Raymond; — og hugsum okkur jafnframt, að þessir framliðnu ástvinir gætu sagt mönnunum — og að þeirri frásögn væri tekið eins og við erum vanir að taka frásögnum jarðneskra ástvina okkar — að þeir hafi séð Krist, og að þeim sé kunnugt um það af eigin reynslu, að hann sé konungur yfir ríkjum framliðinna manna, að hann beri enn sama hugarþel til manna hér á jörðunni eins og þegar hann hékk á krossinum og bað föður sinn á himnum að fyrirgefa þeim, af því að þeir vissu ekki hvað þeir gerðu, en að hann sé nú óendanlega máttugri en þá, af því að hann búi við óendanlega fullkomnari tilveru-skilyrði.

Eg geri afdráttarlaust þá játningu hér, að eg get ekki hugsað mér neitt, sem mannkyninu gæti borið að höndum og mundi verða því að jafn-miklu gagni. Eg get ekki hugsað mér að neinar framfarir í jarðneskum efnum kæmust í hálfkvisti við þessar framfarir. Því að eg verð að kannast við það, að stundum er eg í því skapi, að mér finst jarðnesku framfarirnar ekki svo miklu máli skifta, meðan hugarfar mannanna er rangsnúið. Ófriðurinn mikli hefir mjög eflt þá hugsun hjá mér — þessi stórfeldi hildarleikur, þar sem mennirnir beita framföruum aðallega til þess að myrða hverir aðra og gera hver öðrum sem mest mein.

Ef það kæmi fyrir, sem eg hefi verið að biðja ykkur að gera snöggvast ráð fyrir, þá skyldum við sjá, hvort ekki færi eitthvað að losna í hugum manna um ranglætið, sérplægnina, hégómann, grimdina — og hvað það nú alt heitir, sem þjáir mannkynið. Eg trúi því ekki, að þjóð-

irnar legðu út í það að berast á banaspjótum, ef einstaklingar þeirra töluðu að jafnaði við menn, sem hafa séð Krist.

Og föst sannfæring mín er það, að það verði mönnunum sjálfum að kenna, ef þeim auðnast ekki að ná þessum framförum.

* * *

**Lífsskoðun Lodge.** Eg hefi auglýst, að áður en eg kveðji ykkur að fullu í kvöld, ætli eg mér að minnast á lífsskoðun Sir Olivers Lodge. Þegar hann hefir lokið kaflanum um sannanirnar og frásagnirnar, sem komið hafa frá Raymond, koma nokkurar ritgjörðir, sem hann nefnir einu nafni Líf og dauði. Eina af þessum ritgjörðum hefi eg valið, til þess að láta ykkur heyra hana. Og hún er svona í íslenkri þýðingu:

## *Útsýn yfir alheiminn.*

Hver er þá ályktunin af öllu þessu efni? Eða réttara sagt, hver áhrif hafa þessar rannsóknir haft á það, hvernig eg lít á alheiminn? Spurningin er ekki eins lítilvæg og hún kann að sýnast; því að ef þessar staðreyndir eiga að hafa áhrif á aðra, þá hljóta þær líka að hafa haft áhrif á mig; og það eru einu áhrifin, sem eg veit um frá fyrstu hendi. Menn mega ekki ætla, að lífsskoðun mín hafi breyzt eftirtakanlega, síðan það gerðist, sem skýrt er frá í þessari bók; niðurstaða mín hefir smámsaman

verið að myndast um margra ára skeið, þó að hún hafi að sjálfsögðu sprottið upp af samskonar reynslu. En þessir viðburðir hafa styrkt hana og gert mér frjálst að bera vitni um málið. Nú get eg tengt vitnisburðinn við einkahags-reynslu sjálfs mín, í stað þess að þurfa að tengja hana við einkahags-reynslu annara manna. Meðan eg hafði ekki annað úr að spila, en vitnisburð, sem tengdur var við ástvinamissi annara manna, jafnvel þótt hann væri ekki nema óbeinlínis við slíkt tengdur, þá varð eg að fara gætilega og þegja um margt, og stundum varð eg að þegja með öllu. Ályktanir mínar voru þær sömu þá eins og nú. En nú á eg það sjálfur, sem gerst hefir.

Einn lítill munur hefir samt komið fram á tímabilinu á undan andláti sonar míns og á tímabilinu á eftir því. Þegar eg var á fundum með miðlum á fyrra tímabilinu, var aldrei minst á neinn alvarlegan, ímyndaðan ástvinamissi, sem fyrir mig hefði komið — að undanteknu því eðlilega og óhjákvæmilega hlutskifti, sem öllum mönnum fellur í skaut, að missa þá, sem heyra eldri kynslóð til. En hve nær sem eg eða einhver úr fjölskyldu minni fer nú til áreiðanlegs miðils, lætur ekki nafns síns getið, og varast að gefa nokkura bendingu, sem ályktun verði dregin af með venjulegum hætti, þá lætur sonur minn skyndilega á sér bera, og heldur áfram með sína ljósu og sannfærandi sannana-runu; stundum eru ummælin valin vandlega í sannana skyni, stundum lætur hann sér nægja vingjarnlegt skraf um málefni og endurminningar fjölskyldunnar, en hagar sér æfinlega í samræmi við einstaklings-eðli sitt og endurminningar sínar og skapbrigði sín. Þegar það kemur fyrir að krafturinn er lítill hjá einhverj-

um miðli, eða ef sérstaka örðugleika er við að stríða í eitthvert skifti, þá veit hann af því; og þegar færi gefst, minnist hann á það gegnum annan miðil, sem ekki stendur í neinu sambandi við hinn miðilinn. Með öllum hætti hefir hann sýnt áhuga sinn á því að koma með sannfærandi sannanir. Meira að segja, hann vill, að eg gerist bermáll; og það ætla eg að gera.

Eg er jafn-sannfærður um framhald tilverunnar eftir dauðann, eins og eg er um tilveruna hér. Menn kunna að segja, að enginn geti verið jafn-viss um annað líf, eins og hann er um þá reynslu, sem hann fær með skilningarvitunum. Eg segi, að eg geti það. Eðlisfræðingur getur aldrei bundið sig við bein skilningarvita-áhrif; hann verður að fást við fjölda af hugmyndum og hlutum, sem jarðnesk líffæri hans ná ekki til: kenningin um afl hitans, til dæmis að taka, og um gastegundirnar, kenningarnar um rafmagn, um segulmagn, um efnafræðilegan skyldleika, um samloðun, jafnvel skilningur hans á eternum sjálfum, fara með hann inn á svið, þar sem sjón og heyrn og snerting eru magnlaus sem beinir vottar, þar sem ekki er lengur neitt gagn að þeim til þess að vísa leiðina. Á slíkum sviðum verður að skýra alt svo sem það sé óskynjanlegt, að ytra áliti ólíkamlegt, og í sérstökum skilningi ímyndað. Samt eru þessi svið jafn-ljós og greinileg í augum eðlisfræðingsins eins og nokkur þau svið, sem fyrir mönnum verða í hversdagslegum athöfnum þeirra. Sannleikurinn er sá, að jafnvel fyrir flestum hversdagslegum fyrirbrigðum verða menn að gera grein með nákvæmari hugmyndum, — jafnvel sú samfesta, sem efnið virðist hafa, þarf skýringar við, — og sá veruleikur, sem bak

við liggur og ekki hefir einkenni efnisheimsins, verður smámsaman eins verulegur og óhagganlegur í huga eðlisfræðingsins og nokkuð annað, sem hann veit. Eins og Kelvin lávarður var vanur að segja, þegar hann var í því skapi, að koma með það, sem mönnum fanst fjarstæður — við vitum í raun og veru meira um rafmagnið en við vitum um efnið.

Þar sem þetta er nú svo, þá ætla eg að fara lengra og segja, að af skynsamlegum ástæðum er eg sannfærður um, að til séu verur á musmunandi stigi, ekki að eins verur, sem standa lægra í stiganum en mennirnir, heldur líka þær, sem standa hærra, alt frá því lægsta, sem hugsanlegt er, upp í óendanleikann. Og eg veit af reynslu, að meðal þessara vera eru sumar, sem láta sér ant um mennina og hjálpa þeim og leiða þá, fá jafnvel af sér að skifta sér af því, sem í þeirra augum hlýtur að vera smámunir, ef þær geta með þeim hætti aðstoðað sálir, sem eru að keppa upp á við. Og enn fremur er það trú mín — þó að hún fylli mig auðmýkt — að meðal þessara tignu vera sé s á, æðstur þeirra, sem skifta sér beint af þessari jörð, innan um öll ógrynni veralda í óendanlegum geimnum, — sé sá, segi eg, er rétt eðlishvöt hins kristna heims hefir ávalt hugsað um með örlátri, hjartfólginni lotningu og tilbeiðslu.

Þeir, sem ætla, að dagar Messíasar séu um garð gengnir, þeir fara kynlega villir vegar: hans dagar eru tæplega byrjaðir. Í sálum einstakra manna hefir kristindómurinn blómgast og borið ávöxt, en enn liggur við að það lyf hafi ekki verið reynt við sjúkdómum veraldarinnar sjálfrar. Undarlegt væri það, ef þessi ógurlegi ófriður

skyldi efla og gera einfaldari og réttari þekkinguna á Kristi, og hjálpa mönnum til að gera sér grein fyrir hinni óumræðilegu fegurð í lífi hans og kenningu; en undarlegri hlutir hafa komið fyrir; og hvað sem kirkjurnar kunna að gera, þá trúi eg því, að köllunin frá Kristi sjálfum heyrist betur og henni verði betur sint, af miklum hluta mannkynsins í náinni framtíð, en hún hefir nokkuru sinni enn heyrst og henni hefir nokkuru sinni enn verið sint á jörðunni.

Minn tími hér niðri er orðinn stuttur; það gerir lítið til; en eg dirfist ekki að fara héðan, fyr en eg hefi borið þetta vitni um þá náð og þann sannleika, sem streymir út frá þessari guðdómlegu veru. Yfir skilninginn á hans viðkvæma hispursleysi og ást á mönnunum kunna með köflum að hafa lagst kreddur, sem búnar höfðu verið til í góðu skyni, en áttu alls ekki við, og skilningurinn kann stundum að hafa nærri því glatast innan um þær. En enn eiga auðmjúkir menn og hógværir greiðan aðgang að þessari guðdómlegu veru, eins og þeir hafa æfinlega átt.

Samband milli sviða eða stiga tilverunnar er ekki bundið við skeyti frá vinum eða skyldmennum, eða við samræður við persónur, sem skipað verður á bekk með oss, — það er ekki nema lítill og sannanlegur hluti af sannleikanum. Í sambandi milli sviðanna er við og við fólgið, og stundum án þess að vér verðum þess varir, samfélag við tignar sálir, sem eru farnar á undan oss. Sannleikur slíkra áframhaldandi áhrifa samsvarar þeirri æðstu opinberun, sem mannkyninu hefir verið veitt. Þegar mennirnir hafa samþýtt þennan sannleika hugum sín-

um, þá er í honum fólgin vissan um veruleik bænarinnar og um miskunnsama samúð og bróðurþel hans, sem aldrei leit smáum augum á þjáða menn, synduga eða lítilsvirta; í honum er jafnvel fólgið meira — hvorki meira né minna en það, að einhvern tíma kunni oss að auðnast að verða fyrir augnaráði hins eilífa Krists og heyra uppörfunarorð af vörum hans.

* * *

**Er þessi lífsskoðun ljót?**

Þessi er þá lífsskoðun Sir Olivers Lodge, að svo miklu leyti, sem eg get sagt ykkur frá henni í kvöld. Og nú langar mig til að leggja eina spurningu fyrir ykkur. Eg veit, að enginn svarar henni upphátt í kvöld. En eg bið ykkur að hugleiða hana. Og spurningin er þessi: Finst ykkur þetta ljót eða óguðleg lífsskoðun?

**Hvers vegna eg spyr.**

Það er tvent, sem mér gengur til að koma með þessa spurningu: Annað er það, að eg tel mér óhætt að fullyrða, að langflestir þeirra manna hér á landi, sem telja samband við framliðna menn sannað mál, hafi mjög líka lífsskoðun eins og Sir Oliver Lodge. Hitt er það, að afarhörðum orðum hefir nýlega verið farið um þá menn á prenti — og það úr þeirri átt, sem mér finst að sízt skyldi.

**Viðtökur málsins í Rvík.**

Því fer mjög fjarri, að eg sé að kvarta undan þeim viðtökum, er þetta mál, sem Lodge ber fram í bók sinni um Raymond, er tekið í þessum bæ. Það væri mjög ranglátt. Meðal annars er aðsóknin að þeim fyrirlestrum, sem haldnir eru um

málið, ljós bending um það, að alþýða manna tekur því yfirleitt með góðvild. Öll fréttablöð höfuðstaðarins eru vingjarnleg í þess garð. Mér skilst svo, sem allur þorri mentamannanna sé það líka; fæstir þeirra hafa átt kost á að kynna sér málið til neinnar hlítar, en margir þeirra bíða þess, er fram kann að koma, með góðum hug. Einn flokkur manna finst mér sérstaklega að ætti að taka þessu máli vel. Það eru kennimennirnir og þeir menn aðrir, sem gera sér títt um að hafa áhrif á aðra í trúaráttina. En það er einmitt úr hópi þeirra manna, sem aðkastið hefir komið.

**Ríki Krists og ríki Satans.**

Í vetur var gefin út á prent ræða, sem síra Friðrik Friðriksson hafði flutt í K. F. U. M. Þar var því haldið fram, að um þessar mundir væri verið að heyja hálfu ægilegri og hræðilegri hildarleik en Norðurálfu-ófriðurinn er. Það sé ríki Krists og ríki Satans, sem nú hafi lent í stórkostlegri baráttu en nokkuru sinni áður. Og eitt af þeim öflum, sem sérstaklega er sagt, að berjist Satans megin, og alvarlegastan varhuga verði að gjalda við, er spíritisminn. Hann sé miklu verri en beinn fjandskapur við kristindóminn.

**Lífsskoðun Lodge og spíritistanna.**

Eg tók fram í fyrrakvöld, að þó að Sir Oliver Lodge telji sig ekki spíritista, þá mundi verða afar-örðugt að gera greinarmun á lífsskoðun hans og ýmissa gætinna og hámentaðra manna, sem telja sig í þeim flokki. Og víst er um það, að um langan, langan tíma hefir ekki farið önnur eins fagnaðaralda um sálir spíritistanna eins og sú, er risið hefir út af þessari bók, sem eg hefi nú verið að segja ykkur frá. Vegna hvers? Vegna þess, að það er einmitt spíritistiska lífsskoðunin, sem Lodge er að

halda að heiminum með því mikla valdi, sem fylgir áliti hans og vitsmunum. Svo að þegar ráðist er á spíritismann með þeim hrottalegu ummælum, sem eg hefi nú vikið að, þá hittir sú árás nákvæmlega lífsskoðun Lodge, sem eg hefi nú gefið ykkur sýnishorn af.

Fyrir því spyr eg aftur: Finst nokkurum þetta vera ljót eða óguðleg lífsskoðun, fjandsamleg kristindómnum eða ríki guðs? Og finst mönnum það gætilegt, viturlegt, eða samvizkusamlegt að tala svona yfir ungmennum þessa bæjar?

Nei, það er áreiðanlegt, að Oliver Lodge og þeir spíritistar, sem líta líkt á tilveruna og hann, eru ekki óvinir Krists né guðs ríkis. Til þess að bera þeim slíkt á brýn, þarf annaðhvort takmarkalausa vanþekking á málinu, eða takmarkalausa óhlutvendni. Það sýnir þessi bók svo ómótmælanlega, sem framast verður á kosið. Og það sýnir ekki síður bók hans „Maðurinn og alheimurinn“, sem fræg er um allan heim, og næstsíðasta bókin hans, sú er hann ritaði um veraldar-ófriðinn. Þar sýnir hann meðal annars, hve hörmulega illa þjóðirnar hafi farið með sitt hlutverk, eins og ófriðurinn beri ljósast vitni um. Hann heldur því fram, að nú megi það ekki koma fyrir, að þjóðirnar lendi aftur í sama kviksyndinu að ófriðnum loknum. Hann þekkir ekki nema eina leið, sem þær geti farið til þess að forða sér frá því. Og aðalefnið í þeim ummælum hans ætla eg að gera að niðurlagsorðum mínum í kvöld:

Þjóðirnar verða að hverfa aftur til Krists.



